# L. Hugvekiur,

Edur

# Pijslar-Pankar,

Utaf Historiu Pijnu og Dauda
DRottins vors
JEsu Christi;

Samanteknar
Af Sr.
Vigfwsa Erlendssyne,
Sookhar-Prestead Setberge og Pro-
faste i Snæfells Syslu.

EDITIO. II.

Seliast Innbundnar, 16. Fiskum.

Prentadar a Hoolum i Hialltadal, Af
Petre Joonssyne, Anno 1779.

# Til Lesarans.

MEd þvi Saalenn er hiñ ypparlegre Partur Mañsins, so er þeirra Raade betur vared, er kosta Kapps uñ, hennar Edle og Atgiørse ad stioorna til þess Takmarks og Tilgaangs, saa alviise Naatturuñar Herra hefur fyrerhugad og tilsett: Og þo þesse vor Skynsemdarfulle Ande, kuñe hafa Tillit til ymsra Hiaalpar-Medala i Naatturuñar Rijke, er leide til Anægiu eda Farsældar, þa er eckert so ypparlegt, so nauðsynlegt, og alldeilis Omissande til hiñar sönnu og eilijfu Farsældar, sem þad, ad þessi sami Andi, þesse vor Saal, sameyniſt og iñlijfest Andaña Fødur,

þeim

þeim gooda Gudi, sem, af Nätturunne, til harla Sliooskignum, enn fyrer þad opinberada Ord, uppliijstum Skilnings Augum synir þann beinasta Veg til algiordrar Fullkomnunar. Og er þessarar Fullkomnunar og Atgiorfis, oss, sem endurskapast vilium til Guds Myndar, ei ad leita i spilltu Nätturunnar Edle, ei i Veralldlegum Wiisendum eda Umsvifum, helldur alleinasta i og hiá honum sialfum, i þeim allann Skilning yfergangande Kiærleika, sem ei einasta upplijser Skilningenn, helgar Viliann, helldur og sijner oss þann einasta Mann i Nädinne, er med sinni Fyllingu vorn Ofullkomlegleika, og med sinne Hlijdne, vora Ohlijdne bætt hefur; sem took uppá sig mannlega Nätturu, ad hann forlijkade Heimenn vid Gud, vid sialfann sig; sem strijdde, ad vier vannmegna Sigurenn innum; sem liet sig pijna, oss til Frelsis frá forþientum Helvijtis Pijslum; sem deyde, ad vier lifa skylldum med honum eilijflega; sem giordest vor Arnadar-Madur og vor Frelsare, ad Molld og Aska kynnu Diörfung hafa, ad koma frámm fyrer Nädar-Stoolenn. Og þess vegna skammast hann ei sijn ad kalla oss sijna Brædur. Og þesse Sannleike er þad dijrmæta verduga Ord, er sier i lage finnst frammsett og stadfest i Historiu Pijnu og Dauda DRottins vors JEsu Christi: Og þar hun sijner oss Grundvoll vorrar Sáluhiálpar, og innehelldur þess vegna hid Huggunarrijkasta Efne; þa hefur Velæruverdugur Pro-

 fast-

fasturch Sr. Vigfus Erlendsson tek'd sier fyrer harla vel og lidugslega ut af þeissum Christinndoomsins Kiarna ad samann taka þessar 50. Hugvekiur, edur Piislar-Þanka (er hañ so kallar), fylgiande þeim ægiætu Passiu Psalmum Sr. Hallgrijms Saal. Peturssonar, hvers vegna þær nu a Prent witgaanga, ad so ypparlegt og gudrækelegt Verk, verda mætte sem fleyrstum þessa Lands Jñbyggendum til andlegrar Uppbyggingar og betstu Nota fyrer Lijf og Saal, hvers sier og þeim af Hiarta oskar

Hoolum i Hialltadal.
Þañ 28. Novembris G. M. S.
Anno 1773. B. H. St.



# 1. Pijslar Psalmi.

## Um Christi Utgaungu i Grasgardenn.

### Inngangurenn.



Ott Verk utheimter ætijd goodann Underbwning: Vid eigum nu, Sála mijn, asamt ødrum Guds Børnum, a nærverande Føstu-Tijma, ad taka ockur fyrer-Hendur eitt gott Verk, þad stærsta Skylldu-Verk allra Manna, þad ædsta Glede-Verk allra Guds Barna, sem er ad hallda opeñberlega Miñing ibitrar Pijnu og bloodugra Kroßens Kvala Guds Eingietens Sonar og vors astrijkasta Endurlausnara JEsu Christi. Vijst er þetta gott-Verk, Sála mijn, þvi eckert vitum vid ockur añad til Myskunar, helldur eñ JEsum Christum þañ krossfesta, 1.Cor.2. Gleymum þvi ecke ad bwa goodañ Underbwning gudrækelegrar Andaktar, Eptertektar og Jhugunar. Voknum upp af ockar Andvaraleises Svefne; Vakne Hiarta, Hugur, Maal og Miñe,

jaa aller ockar ifire og ytre Kraftar selie sig nu hid dijrasta, so vid festum nu ockar Frelsara JEsum, og hans heilogu Pijnu, so sem eitt Jnsigle a ockar Hiarta, Lofkv. 8. Vijst er þetta hid stærsta Skyllduverk allra Manna, boded af blessudum Drottens Anda fyrer Munn Postulans Pauls, ad vier skulum minnast a JEsum sem Mootmælenn þolde, Hebr. 12. og kunngiora Dauda DRottenns þangad til hans kiemur, 1. Cor. 11. JEsus liet sig hiartanlega langa til ad lijda Kvalernar, ockur til eilijfrar Endurlausnar, Luc. 22. Verdugt er þad, ad vier, Saala mijn, gledium ockur vid þad, ad minnast þessa JEsu Mijskunar-Verks, hans hœleita Nafne til Heidurs og Vegsemdar. Enn Gud næde ockar Oþacklæte! JEsus utgaf Lijf og Blood til ad leysa ockur og frelsa, enn vid nennum so skialldann sem alldrei, ad minnast þess og þacka honum þar fyrer sem byriar; þetta skal ockur af Alvoru angra, og kostum nu Kapps umm gudrækelega Boot og Betran ad giora. Vijst er þad hid ædsta Glede-Verk allra Guds Barna, JEsu heilogu Pijnu i Munne og Minne ad hafa, þvi hvad kann þeirra hrædda Hiarta vegna Syndanna kroftuglegar ad hughreista, enn JEsu Pijna, sem er Forlijkun og Boot fyrer allar Veralldarennar Synder. 1. Joh. 2. Hvad kann þeirra sorgande Hiarta i Eymdunum sætlegar ad svala, enn saarar JEsu Kvaler, sem giordest Madur Hormunganna, so hann kynne ad hafa Sampijning med þeirra
Eymd-

Syndum. Hebr. 5. Hvad kan vor til ills hneigdu Hiortu betur ad leidrietta enn Lausnarans bitru Piisler, sem kostade so myklu til þess, ad vier, af Syndunum leyster, skylldum verda Riettlætesins Pioonar, Rom. 6. Hver gietur vered Sioonar-Speigillenn fegre fyrer vorum Augum, enn þad afværda JEsu Hiarta a Krossenum, i giegnum hvert vier meigum med Glede siaa Guds Foodurs Astar-Pel til vor i Himnenum, hver ed utgaf sinn Eingieten Son til þess, ad aller þeir sem a hann trwa, skylldu ecke fyrerfarast, helldur hafa eilijft Lijf, Joh. 3. Þetta haleita Efne vilium vid nu, Saala min, i O Rottens Nafne nockud gior yfirvega. O JEsu! send mier Anda Naadarennar og Bænarennar, Anda Raads og Styrkleika, Anda Vidurkienningarennar og þijns Otta, Sach. 12. so ad sierhvad hier um hugleidt, samed og uppreiknad, verde þijnu haleita Nafne til Dijrdar, en ollum þeim, er lesa eda heyra, til ærlegasta Saalnar Gagns, og gledérijkustu Blessunar Nota. Amen.

## TEXTENN.



Og sem þeir hofdu Lof-Saung, en swonged, gieck JEsus ut, sem han var vanur, yfir um Læked Kedron til Fiallsins Olivett, en hans Læresveinar fylgdu honnum epter; Pa sagde han til þeirra:

þessare Noottu munud þier aller hneixl-
ast a mier. Petur svarade og sagde til
hans: Þo aller hneixle sig a þier, þa skal
eg þo alldrei hneixlast; JEsus sagde til
hans: Sannlega segie eg þier, ad i Dag
ædur enn Haneñ galar tvisvar, muntu af-
neita mier þrisvar. Enn hann Petur taladi
þa enn frekara: Þo eg ætte ad deya med
þier, þa skal eg ecke afneita þier. Slijkt
hid sama sögdu aller Læresveinarner.

SExstags Bloomstur sæluhiælplegra Lærdoo-
ma fiñum vid, Seala miju, i þessum himneska
Alldingarde, hverium vid skulum i Hiarta ockar
iñsafna, nefnelega: 1. Ad DRottenn vor JEsus
hafe æsamt sijnum elskulegu Læresveinum, Lof-
Saunginn swnged, ad endadre siñe Mæltijd; Og
þad mia vijdar lesa i Gudspialls Sogunum, ad
Frelsaranum var tamur þesse fagre Vane, ad byr-
ia sitt Bordhalld med Blessan og Bænrækne,
Joh. 6. og lijka ad enda þad med Lofgiörd og Þack-
læte vid siñ himneska Fodur, Marc. 8. Hafe nu
Sonur Guds, sem alls Raad ætte, bæde a Himne
og Jordu, Matth. 28. ecke viliad vid sitt Bord-
halld þessu Gudrækness Verke gleyma, O! hversu
miklu framar æitum vid ad þeckia þad Skylldu
vora, bæde ad leita vors Brauds med bidiande
Hiarta, og lijka ad neyta þess med þackande Twn-
gu

giu og þijdre Lofgiord vid hiñ lifanda Gud, sem fyr-er oss voludum og alls goods þurfande Vesæling-um upplijkur daglega siñe Orlætes Hond, og sed-ur allt hvad lifer med Velþocknan, Psalm. 145. Gud vardveite ockur, mijn Saal, fra þeirre vidur-styggelegre Synd, ad vid med vondu Oþacklæte virdum lijtels O Rotteñs Naadar Gæfur, og byrgium so aptur fyrer ockur Bruñ hañs Naadar og Blessunar.

2. Merkium vid, Saala mijn, ad Lausnarenn villde hverge wt af Hwsens Dyrum hræra Foot siñ, fyrreñ hañ hafde Bænar og Packlætes Lof-Saung sijnum blessada Fodur sionged; Lærum og hølldum þessa loflegu Lausnarans Veniu, nær vier byrium Reisu nockra fra Heimilum vorum, leitum oss þa fyrst med Bænenne Naadarrijkrar Fylgdar og Fodurlegrar Vardveitslu hiñs gooda Guds, ad hann virdest ad farsæla oll vor Foot-Spor, og giefa oss heilum heim aftur ad koma, Tob. 5.

3. Er vel athugande, ad þegar Lausnareñ gieck wt af Hwsenu, laau hanns Leider yfer uñ Lækenn Kedron, sem hefur sitt Nafn af Dimu og Sorta; Þanneñ er allt vort Lijf einn yduglegur Rauna-Ferill i giegnum Hrygdar Dal og Hørmunga Læke Heims þessa. Gott er Guds Vilia ad taka; JEsus hlaut þessa Sorgar-Gotu undañ oss ad gaanga iñ i sijna Dijrd, Luc. 24. Hialpe oss hañs

mikla Myskun til þess, ad fylgia honum so fastlega epter, ad vier um sijder saum komest i giegnum allar Hrellingar inn i hanns himneska Dijrdar Rijke, Post. G.B. 14.

4. Sie eg hier dæsamlegt Dæme Þijnar æstud-leguistu Hoogværdar, minn HErra JEsu! þu giecks sialfviliugur inn i Grasgardenn, og gasst þig i Hendur þinna Ovina, so ad sem minnst Vand-ræde edur Orooe þyrfte þar af ad ordsakast; Feig-enn vil eg, DRottenn minn, af þijnu Dæme læra, ad hafa Frid, so miked sem mogulegt er, vid alla Menn, Rom. 12. eige leitande mijns Hagnadar med annarra Skada, helldur allt þad med Polenn-mæde lijdande, sem þier þocknast ad lata mier til-falla. Eg hefe hlæande æfram annad þann breida Veg, sem leider til Glotunar, þu giecks hier gang-ande yfer umm Kedron mier til Hiælpræde og My-skunar; Lof sie þier Lausnare minn ad eilijfu, og virdstu nædarsamlega ad greida mijna Eymda Gotu til æskelegrar Blessunar og Glede.

5. Er vel merkiande, ad JEsus giecks inn i Gr-asgardenn Gethsemane, hvar hann blessadur var fangadur til Lijflaats og Dauda; Mitt Lijf mæ med ollum Rette kallast Grasgards Ganga, æ hverre eg alltijd meir og meir nalægast Grosena og minn Dauda; Vakta þig i Guds Nafne, Sala mijn, vid þeim græna og lystelega Syndanna Ve-ge, þvi ef ecke er i Tijma ad giort, þa leider hann

ad Lyktum til eilijfrar Glötunar; Laatum ockur þvi nidurſcꝛ heitum Ydrunar Taarum medañ vid hrekiumſt i Heimenum, þa munum vid i JEſu Nafne ódlaſt Uppſkieru eilijfrar Glede i Himnenum, Pſalm. 12.

6. Lærum vid, Sáala mijn, hverſu naakvæmlega naadarrijkur JEſus varar ſijna elſkulega Læreſveina vid yfervofande Hrøſun og Voda: A þeſsare Noottu (ſegir hañ) munud þier aller hneixlaſt aa mier. Samur er ſoa bleſſade HErra i Myſkun ſiñe og Millde vid ockur, Saala mijn; hañ ſier beſt, hver Neyd eda Vode vill aaſtrijda, hañ hefur giefed ockur Medøleñ, og vill veita ockur Krapt ſiñar Naadar; allt Vol og Andſtreyme ad ſigra og yfirviña. Verum þvi ſtyrk og orugg i Guds og hañs Naadar Hiaalpræde, Eph. 6. enn treyſtum alldrei ockar eigeñ Mætte, eins og H. DRottens Poſtula Petur hendte, þvi af hañs Dæme meigum vid læra, hverſu naalæger vier erum Olucku og Hrøſun, enn Onijter til alls Goods, þegar Gud tekur i burt ſijna Hiaalpar og Naadar Hond. O miñ Milderijkaſte JEſu! Vær þu beſt og lykna Veikleika mijnum; Gief mier gudrækelega þeſs ad giæta, ad eg ber þann dijrmæta Fieſiood þinnar Naadar og minnar Saaluhiaalpar i breyſku og broſhættu Leyrkiere, 2. Cor. 4. Laat þvi, O HErra! þiñ Myſkunar Krapt ſtydia mig og ſtyrkia, ſo eg faae bareſt goodre Baraattu Trwareñar og hondlad þad eilijfa Lijfed. Amen.

2. Pijſl-

# 2. Pijslar Þanke.

## Um Christi Kvol i Grasgardenum.

JEsus kom þa med þeim i þad Akur-Gierde, sem hiet Gethsemane, þar var eiñ Grasgardur, þar gieck JEsus iñ, og hañs Lærisveinar. Eñ Judas, sem ed sveik hañ, visse og þeñañ Stad, þvi JEsus safnadest oft þangad med sijnum Læresveinum. Og hañ took med sier Petrum og Jacobum og Johañem, þa tvo Sonu Zebedæi og took til ad hryggiast, titra af Hrædslu og harmþrwngeñ ad verda, og þa sagde hañ til þeirra: Mijn Sæl er hrygg allt i Dandañ, blijfed hier og vakid med mier. Og hañ sleit sig i burt fra þeim, og gieck litlu fram leingra nær einu Stein-Snare, og kraup a Knie, fiell fram a sijna Asioonu til Jardar og bad, ef þad mogulegt være, ad su Stund hia sier lide, og sagde: Miñ Fader! Ef mogulegt er, þa vijki þesse Kaleikur fra mier, Abba, Fader miñ, allt er þier mogulegt: Tak burt þeñañ Kaleik fra mier, þo ei hvad eg vil, helldur hvad þu villt.

Blijd

BLijd er bætande Hond, þar sem blessadur Jesus œ Hlutenn ad, ollum sijnum særdum og siukum Vesælingum til lijknarfullra Meina Boota og Milldimiwkrar Adhiwkrunar i allri Neyd, so hann er saunkalladur DRottiñ vor Grædare, 2. Mos. B 15. Þad sannade hañ blessadur strax i Uppbirjun siñar Pijnu. Adam leiddi fyrst Syndena inn i Heiminn i Eden Alldingarde allre Verolldu til Olucku og Fordæmingar. 1. Mos. B. 3. Hiñ añar Adam af Himne, 1. Cor. 15. Drotteñ vor JEsus Christur, biriade sijna bitru Pijnu i Grasgardinum Gethsemane, Adam og ollum hañs Nidium til Endurlausnar og Myskunar; Skilnings Tred i Eden færde af sier þañ Avoxt sem Adam vard til Nauda og Dauda; Lijssins Tred Lausnareñ JEsus gaf af sier i Gethsemane guddoomlegañ Avoxt Gledirijkrar Lijknar og Lijfgiafar; Himnesk Lausn Blod hañs Heilogu Pijnu munu mijnu særda og siwka Hiarta til blessadrar Heilsubóotar best duga. Opb. B. 22.

Framar vottar Texteñ, ad sœ gudlause Svikare Judas hafe giorla þeckt þenañ Stad; og er lijklegt ad sœ arge Skœlkur h. fe ædur hugsad sier, ad þar mundi hentugast Herrañ JEsum ad forrœda, so ad miñst œ bære, og hñ giœti þess helldur huled siin herfilegu Drottins Svik. Lær þad hier af, Sœla mijn, ad vera alldrei ugglaus uñ þig i þessum vonda Heime, hvar hiñ skiædaste Ovin Diosulleñ gengur uñ krijng, sem greniande Le-

on, leitandi hvǫrt hann geti eftir þier og odrum, sem hañ megi uppsvelgia, 1. Pet. 5. Hañ tekur vara ꝏ ollu Tæ- kifære, og hefur i frame hinar hættulegustu Vijg- vielar til ad draga ockur wr Drottins Naadar- Hende, og kallda faungudum under Syndareñar Þrældoom, efter siñe Villd, 2. Tim. 2. Og vid þessum hañs Umsꝏtrum megum vid hvad allra hellst bwast, þegar vid i Guds Hwse eigum Gude hvad betst ad þioona, og vora Sꝏluhiꝏlp sem vandlegast ad vagta, Phil. 2. Ecki er Satan hell- dur Sveinalaus i sijnu Rijke; Hreckvijs Heim- sins Born eru hañs Erindis rekar til ad villa ock- ur ꝏ Veg Glotunareñar; Voktum ockur þvi, Sꝏla mijn, og grꝏtbidium Giædskurijkañ JE- sum, ad hañ blessadur virdest i ollum Hꝏska ad vera ockar Hiꝏlpar-Skiolldur og Sigurviñing- ar Sverd.

Þad vottar sialf Historiañ, ad Lausnarenn hafe optlega lagt i Vana siñ, ad safnast med Læri- sveinum sijnum iñ i þeñañ Gras-Gard; Og hefur hañ blessadur, ꝏn Efa, þeinkt þa, um sijna Pijnu og Dauda, og beded siñ himneska Fodur Hiꝏlpar til ad yfirviña Pijslernar, Mañkyninu til Myskun- ar, Luc. 22. Helgud Greftrunar Plꝏts og Leg- stader Guds Barna, meiga maklega kallast fagur Drottins Alldingardur, hvar þeirra andvana Lijk verda sꝏd i sorglegre Vansemd, eñ munu þadañ uppriisa i dijrdlegre Vegsemd, 1. Cor. 11. Giæt þijns Frelsara fagra Dæmis, christeñ Madur, so

vft sem þu gengur um þeñan Akur; Lát Dauð-
ans Merke, sem þu sierþar fyrer þijnum Augum,
uppvekia i þijnu Hiarta Dauðans og Upprisuñ-
ar gudrækilega Endurmiñing, og það med soddañ
Andagt, ad hvert sinn þu lifer eda deyr, þa meger þu
vera viss þar um ad þu siert Drottens, Rom. 14.

Þegar Lausnariñ var gengiñ iñ i Grasgardiñ,
liet hañ nockra efter af sijnum Lærisveinum i viss-
um Stad, eiñ nockra tock hañ afsijdis med sier, til
ad horfa uppa sijna Sálar Angist og Dauda
Strijd; Þar af skulum vid Sála mijn taka ock-
ur tvøfalldañ Lærdoom. 1. Merk þu, ad Guds
heilog Christne má maklega Andlegur Gras-
Gardur heita; Jesu utvaliñ Brudur og elskandi
Lærisveiñ átt þu mijn Sál ad vera, þu sem i þeñ-
añ Gras gard ert fyrer Skijrnina iñleidd, til þess,
ad þu skuler afneita siálfre þier, taka þiñ Kross
uppa þig og fylgia so JEsu efter, Matth. 16. O
mijn Sál, sit þu med þoliñmoodu, þacklátu og
hlijdugu Hiarta þar sem JEsus seger hier, og lát
þier vel lynda það Hlutskipte, sem honum þocknast
ad láta falla i þitt Skaut; Allre þiñe Ahyggiu
skalltu varpa uppa hann, hann blessadur mun
besta Umsorgun fyrer þier bera, 1. Pet. 3.

2. Lærum vid, Sál mijn, ad ecke villde Lausn-
areñ einmana vera i siñe hørdustu Hiarta Sorg;
Eins skulum vid i ockar Freistingum og uppáfall-
ande Angurs Bøle fordast med Þung-Siñe og

Ein-

Einsetum ad auka og ockar Harma, enn ænstuind-um hia Gude og hans Elskendum ad leita ockur. Hugsvolunar og Harma Boota, þvi sw er Raad-ar Radstofun DRottens, ad Madur skule vera Manns Gaman; Þo er sw Skientunenn betst, ad hugsa til Guds, og una sier vid hans miklu Mystun. O! minn Astwdlegaste JEsu, hardt slær og saarlega nagar mig mijn eigin Samvitska, nær eg hugleide þær herfilegu Kvaler, sem þu leidst saklaus fyrer mig sekann Þræl; Ach HErra! Eg hefe giort þier Erfide med mijnum Synd-um, og Mædu med mijnum Misgiordum, Es. 43. Vijst meiga mijner vondu Glæper vera ein ofur-þwng Byrde, Psalm. 38. Iaa þijngre enn Him-en og Jord, þar ed Guds Sonur JEsus, sem ber alla Hlute med Orde sijns Almættis Kraftar, Ebr. 1. hlaut ad falla flatur til Jardar, þegar hanns himneske Fader hafde kastad ollum mijn-um Misgiordum uppa hann, Es. 43. Af þess-are bitru JEsu Pijnu finn eg Ilmsæta Svala Lind med himneskum Lijknar Straumum, er flio-ota til minar angradu Salar. Þwngar eru ad sonnu mijnar Synder mier til Hegningar, en lang-tum þijngri Borgun og Forlijkun sie eg ad Frelsa-rens hefur hier wtlagt mier til Mystunar; hier er Gud i Christo ad forlijka Heimenn vid sialfann sig, 2. Cor. 5. JEsu saargrætelegasta Sorg er mij-nu sundurkromdu Hiarta sætasta Endurnæring; JEsu titrande Skialfte er mine hræddu Sam-

vitſ-

vitsku Efunarlaus Trwarstyrking þar um̃, ad hvar sem Syndeñ yfergnæfer hiaa mier, þar yfergnæfer Naadenn miklu framar i Christo JEsu, Rom. 5. Enn framar lær þu þad, Saala mijn, af blessadre Bænar Atferd þijns Lausnara i Grasgardinum, ad audmiwkt, sundurkramed og andvarpande Hiarta er þad þægasta Offur sem þu skallt æ tijd frambera fyrer þijns Guds Naadar Auglit, einkum þegar nockur Neyd eda Hormung er fyrer Hende: Upplæt alldrei þinn Muñ, christeñ Madur, til ad mögla med Oþoleñmæde æ mote millderijkre Guds Naadstiosun, þvi þad aflar þier meire og þijngre Refsingar; Opnadu helldur bæde Hug og Hiarta, til ad leita DRottens, nær Hormungenn æliggur, Es. 26. og bidia hann Vægdar og Myskunar: Gleym ei helldur, þegar þu mt Bæneñe villt bera þijna lijkamlega Naudþurft fram̃ fyrer Gud, ad giefa þinn Vilia æ tijd med Audmyktunder hanns Myskunar Vilia, þvi ad þinn himneskur Fader veit læangtum betur enn sialfur þu, hvers þu hellst vid þarft, Matth. 6. Vonadu Efunarlaust uppæ hauns Almætte og mikla Myskunseme: Hann mun þvi öllu vel til Vegar koma, Psalm. 47. Pad er einninn sialfsögd Skyllda vor Ovserdugra Vesælinga bæde med Saalar og Lijkama audmiwkustu Lotning ad koma fram̃ fyrer Guds dijrdarfulla Auglit i vorn Bæna-Stad; Petta byriar ad giöra, ad Hiartad, sem Gud hellst ælijtur, 1. Sam. 16.

sie þa hvad betst prijdt med Audmyktenne, enn hitt byriar ecke helldur epter ad skilia, ad vor vesæle Lijkame beige sig, med Bligdan, fyrer hæleitu DRottins Tignar-Vellde, vidurkiennande sig med Abraham, ad vera audvirdilega Molld og Ösku, 1. Mos. B. 18.

O! minn Giædskurijkaste JEsu, þijn grætleg Grasgards Pijna sie og vere minne ormæddre Sælu Ilmsætur Nædar og Svala-Brunnur! Sæ særbeitte Angurs Broddur, sem þitt helgasta Hiarta særde, virdest nædarsamlega ad glédia og græda mitt Syndum hrædda Hiarta i Lijfe og Dauda. Mijns Hiarta Audmykt og Andagt skal ætijd elska, vijdfrægia og vegsama Ast og Næd þijns Hiarta; Þier sie Dijrd, Heidur og Æra ad eilijfu; Amen.

## 3. Pijslar Þanke.

### Um HErrans Christi Dauda-Strijd.

Enn hønum birtest Engill af Himne, sæ ed styrkte hann. Og þar kom ad hann strijdde vid Daudann, og took ækaflega ad bidia, enn hans Sveite vard so sem Blood-Hnicklar, þeir ed fiellu æ Jördena.

Alldrei

Alldrei er good Vijsa of oft kveden, þar sem Menn eiga um̄ bitra JEsu blessada Pijnu ad ræda; þess oftar sem um̄ hana er hugsad, þess fleira sem af henne er talad; þvi betur finnur ein̄ sann̄ydrande og trwud Saal þar inne Ilm Lijfsins til Lijfsins; og Guddoomlegann Kraft til eilijfrar Heilsugiafar, Rom. 1. Þvi skulum vid nu Saala mijn i sönnum Guds Otta taka þar til, sem seinast hættum vid, um̄ HErrans JEsu grátlega Grasgards Kvöl ad þenkia og tala; Hver ad vijsu hefur vered ysred stoor, og öllum allra Engla og Manna Krafte ölldungis Obærileg. Hier hafa Böndenn Daudans spent Hertoga Lijfsins, og Belials Læker skielft DRotten̄ Dijrdarennar, Psalm. 18. Hann gieck til og fraa um̄ Grasgarden̄ finnande hverge Hvijld nie Roo, Hugsvölun edur Glede; Guds Reide Ognade hönum, Helvijtis Pijsler gengu lukt yfer han̄, og allar allrar Veralldaren̄ar Synder voru uppgeingnar yfer han̄s Höfud; Angistenn var alla vega nalæg, enn engen̄ var sá er huggade, Psalm. 22.

Lær hier af og athuga Saala mijn. 1. Hversu hrædilegt þad er, ad falla i Hendur DRottens þegar hann er reidur, Ebr. 10. So fliott sem Liooseд hverfur wr Hwsinu fyllest þad af svörtu Mirkre; Þegar Myskun Guds missest ur Jdrunarleiju Man̄sins Hiarta, þa missest öllRaad og Huggun bædi a Himne og Jordu, þa er Man̄eskiann hvervetna umvafenn Eymd og Neyd, O-

 luckr

luckuog Bølvan; Gud vill tilreikna heñe Synd-
ena, og hvernenn gietur hun þa stadest? Psalm.
130. 2. Maa hier af siaa, hvad Obærileg-
ar mune verda Pijsler Fordæmdra i Helvijte, þeir
ed med forstockudu og forherdtu Hiarta hafa safn-
ad sier Reide a þann Reidennar Dag, Rom. 2.
Þeirra svijdande Kvala Elldur mun alldrei slock-
na; Þeirra nagande Pijsla Ormur alldrei deya,
Es. 66. O! hvad illt Verk er Syndenn, sem so
Ognarleg Giølld epter sig leider. Minn Gud
myskune mier, so eg alldrei forherdest af heñar Sv-
ikræde, Ebr. 3. 3. Maa hier fiña fagurt Blo-
omstur himneskrar Huggunar; Þvi med þeim be-
isku Hryggdar Taarum, sem blessadur JEsus wt-
hellte i Grasgardinum, meigum vid, Saala mijn,
og aller ydrande Syndarar, viss vera, ad hañ hef-
ur utslockt Reide Baal DRottens, sem vid hof-
um upptendrad med ockar Glæpum; Honum
vard allt til Ama og Angistar, so allt skylldi snwast
ockur til Farsælldar og Fagnadar, ad DRottenn
villde virdast til ad veita ockur Huggun i Angist-
iñe, vera ockur naadugur og heyra ockar Bæn, Ps.
4. Eg grætbæne þig miñ Gædskurijkaste JEsu!
virdstu fyrer þau Hryggdar Spor sem þu gieckst til
þijns Dauda, ad opna miñi aumu Saal i mijnu
Andlaate fagra Frelsis Leid inn i himneska Dyrd
og Sælu; Fyrer þad Neydar Bøl, sem laa a þier
a þinne Kvala Noottu, virdstu ad laata fagurt
Naadar og Glede Lioos lioma yfer mier i øllum
mijn-

nüjnum Sorgar-og einkum þeim sijdurstu Daudans Myrkrum. Þu varst Afskodarlaus yfergiefenn af þijnum Vinum, giefdu ad eg i allre Neyd mege una mier i mijns Guds Elsku og Nꜳdar Ørmum, segiande til DRottens: Mitt Trauft, mitt Slot, minn Gud, a hvern eg treyste, Psalm. 91.

Enn framar vitnar Historiann, ad Hertoge Lijfsins hafe strijdt vid Daudann. O! Eina Furdu yfer alla Furdu, O! Eina Ilmsæta Huggun og Glede. Med þessu sijnu bitra Dauda Strijde hefur Guds Sonur JEsus blessad mijna yfirvofande Bana Stoott og efter filgiande Andlꜳt. Hier tapade Daudenn sijnum Kvala og Bølvunar Brodde, enn blessadur JEsus leidde i Lioos Lijfed og Odaudlegleikann, 2. Tim. 1. Nu, mun mijnn Dande i JEsu Nafne verda mier einn sætur Hvijldar Svefn og gledelegur Inngangur frꜳ ollum Eymdum inn i eilijfa Sælu; Lofadur sie Gud, sem mier hefur Sigurenn giefed fyrer JEsum Christum, 1. Cor. 15. Adam leidde med sijne Yfertrodslu banvæna Blood-Skulld yfir Jordina henn til Bølvunar, 1. Mos.B. 3. Guds Sonur JEsus wthellte sijnum Blood Svelta a Jordena, hene og ollum Skepnum, sem a henne hrærast til Blessunar, so ad i JEsu Nafne verdur bæde Lijfsins og Landsins Avoxtur ollum Guds Bornum blessadur, Ja, DRottenn uppfijlur daglega sijnum gooda Fesiood, og blessar allt þeirra

Handa Verk. Æ minn Hiartans Blood=Brwd=gume blessade JEsu! virdstu fyrer þiñ saarheita Dreira=Sveita, ad mijkia og græda i Myskun þinne minn saarkallda Dauda Sveita, og gief ad mijn ørmædda Saal mege þa i þijnum Myskun=ar Hondum hvijlast, hvar engeñ Pijna nie nockur Angistar Sveite mun hana ad eilijfu snerta, Spek. B. 3. Enn aa medann þier, O Kottenn minn, þocknast mijnar Eymda Stunder i þessum Tæara Dal ad treina, vil og skal eg fegenn þijna blooduga Grasgards Pijnu mier ætijd i fersku Minne hafa. Þegar eg ad Morgne Dags ste=nd upp af Sæng minne, og stijg fyrst Fæte aa Jor=dena, hugsa eg til þijn, HErra miñ JEsu, og and=varpa i Himinenn, ad þu laater þinn helgasta Blood=Sveita vera mijna Vernd og Blessan, hvar sem eg er og fer, so eg, bædi uti og iñi, verde blessadur i þier miñ Gud, sem skapad hefur Him=in og Jord, Psalm. 115. Þegar Syndaña og Sorganna Bol særer Huga minn, flij eg med Naudþyrstu Hiarta i Grasgardenn þiñar Pijnu, rioodrande mijna aumu Saal i Dropunum þijns dijrmæta Dreyra, er eg audmiwklega bid og esun=arlaust vona, ad mijnu Maale mune vægia, mijn=um Hornum bægia, og mitt Hiarta hreinsa af daudlegum Verkum til ad þioona þier, miñ lif=ande Gud, Ebr. 9. O! eina dijrmæta Foorn! O! einn miwkann Græde Plaastur! Sañhei=lagur Guds Sonur bar sijns Fodurs Reide, so eg

Saka • Þrællen skyllde verda riettlætur fyrer Trwna, og hafa Frid vid Gud fyrer DRottenn vorn JEsum Christum, Rom. 5.

Þad er bert af Pijslar Soguñe, ad þess meir sem magnadest JEsu Dauda Strijd, þess heitare og ækafare giördest hañs blessada Bæn. Miñstu þess, Sæla mijn, þegar milldum Gude þocknast ad undañdraga Hiælpena i þinne Neyd; Lær þa af Lausnara þijnum, ad bidia og andvarpa ad kalla og kveina þvi audmiwklegar og alvarlegat i Himeniñ til DRottens, sem honum blessudum þocknast ad læta þig lengur i Eymdumum þreia, og bijda epter Bænheyrsluñe, huggande þig þar vid, ad Fader Myskunsemdaña og Gud allrar Hugguñar, 2. Cor. 1. mun æ sier þægelegum enn þier farsælum Tijma brædlega giora þijna Frelsan, Luc. 18.

Ad sijdustu sier þu, Sæla mijn, af Dæme Lausnara þijns, ad þeir himnesku Andar, heilagér DRottens Einglar, eru bæde þier og ollum, i Anda og Sañleika bidiande Guds Bornum, Joh. 4. til Verndar og Blessunar nælæger i Eymdum þessa Lijfs, eñ einkum æ þeirra Dauda Stundu, til ad bera þeirra Eymdum þiædar Sæler; lijka sem Lazari fordum, wr þessum Armædufulla Heime iñ i fagrañ Abrahams Fadm eilijfs Fridar og Fagnadar, Luc. 16. O minn æstwdlegaste JEsu! Þad bitra Dauda Strijd,

sem so hardt ad þier þreyngde, er vort feigursta Frelse og ylmsæt Hugsvolun bæde i Lijfe og Dauda, þar fyrer syngest þier eitt Æra bæde a Himne og Jordu, þar fyrer færest þier audmiwkt Aster Þacklæte af allre þiñe Christne, sem þu hefur afrekad med þijnu Bloode, Amen.

## 4. Pijslar Pænke.

Samtal Christi vid Postulana.



Og hañ stood upp fra Bæneñe, og kom til siña Læresveina, og fañ þa sofande wt af Hrygd og sagde til þeirra: Sofed þier nu og hvijlest, hvad sofid þier? þad er noog, standed upp og bidied, so þier fallled ei i Freistne. Siaed, su Stund tekur ad nælgast, og er komeñ, ad Mañsins Son mun ofurseliast i Syndugra Hendur. Standed upp og gaungum hiedan; Siaed! Sa er mig svijkur, hañ er i Nand.

Þess er hier ad framan geted i Pijslar-Sögu Drottens, ad hñ hafe wtvaled Þriá af sijnum elskulegum Læresveinum, til ad vera hiá sier i Kvoliñe, eñ sialfur hañ blessadur afsijdes geinged, til ad lijda þær særustu Salar Pijsler.

Nakeñ hefur þu, miñ Hiartkiære Lausnare, fagurlega uppfyllt þad allt, sem qvædur var um þig spaad, og viliuglega giefid þig til ad lijda Pijsler nar epter æsetu O Rottens Raade og Fyrerhygiu, Post. G. 2. Þu geckst asijdes til ad lijda, O Rotteñ miñ, þvi þu varst sa, sem einsamall atter ad troda Vijnþrijngu gudlegrar Reide, og þar var engeñ af Foolkenu medur þier, Es. 63. Þu varst sa eine Madur i Raadeñe, Rom. 5. sem alle i m villder og mætter Raadena atvega, þad eina Guds Lamb, sem bera skyllde Veralldarennar Synder, Joh. 1. Lofadur vertu ad eilijfu, og giefad þijn eina Naad duge mier til ævarande og æfkeleguftu Blessunar!

Strax sem Lausnareñ var litlu fram leingra fra Lærisveinunum geingeñ, fiellu þeir i fastañ Svefn. Æ miijna vondu, vesælu og blindu Nattúru! Ef eg skal ei i Synd og Raanglæte sofa, mættu miñ Jesu ecke eitt Stein-Snar fra mier vijkia, þvi an þijn megna eg einkis, Joh. 15. Veit þu mier af Mijskun þiñe bæde Viliañ og Mætteñ til alls hins Gooda Phil. 2. Þvi ad eins mæ Nætur Hvijldeñ verda mier Hættulaus og Roosom, ad þu, minn HErra JEsu, virdest ad vaka hia mier med þiñe Verund og Blessan, þvi vil eg ecke a Kvollldeñ sofna, fyrr eñ Saaleñ mijn hefur atvegad sier Hvijld i þijnum Raadar Fadme, og avarpad þig med þeim Tveimur Emaus. Reisendum: Vertu hia

oss HErra þviad kvøllda tekur og a Dagenn lijdur, Luc. 24. Stoor var Veikleike JEsu Postula, sem fiellu i væraa Svefn, þa þeir vaka skylldu, enn eingu betur erum vid, Saala mijn, a ockur komenn fyrer Auglite lifanda Guds; Vid erum af ockar blessada Lausnara leidd inn i Alldingard hans heilogu Christne hier i Heime, til þess, ad vid skylldum, med vakande Ast og Hlijdne, gaanga Gude verduglega til allrar Þocknunar, Col. 1. Enn, Gud naade! Hvad skialldann høfum vid i Jesu Otta og Elsku vakad! Hvad opt høfum vid i Synd og Andvaraleyse sofed! JEsus hefur med Þresolldum Naadar Aminningum boded ad vid skylldum vaka, enn samt høfum vid laated Þrefalldann Synda Svefn sigra ockur. . A Æsku Alldrenum þokti mier yndællt i Ungdoomsins Faavisku ad sofa, enn JEsus liet vekia mig med Forelldranna hoogværre Hyrtingu og Advørun, ad eg skyllde minnast a minn Skapara, i mijnum Ungdoome, Pred. 12. A Uppvaxtar Arunum lagde eg mig a Leтенar og Giaalijfesins Kodda, JEsus hefur sendt Þienara sijna, sem mig Aminna og advara: Vakna þu upp sem sefur og rijs af Dauda, so mun Christur upplijsa þig, Eph. 5. Ecke hafa Fullordens Arenn miked bætt umm fyrer Beruskune; Æ! hvad svefnsamt vill mier kaungum verda i svortu Myrkre Syndsamlegrar Heimsins Elsku og sofande Bænrækтarleysis; samt hefur Jesus ecki gleymt vid mig Giædsku sinne, heldur laated

dag-

daglega sooma iñ mitt Hiarta, Nædar Geysla siins heilaga Anda, sem mig hefur optlega aminnt, til ad læta af Illu, enn læra Gott ad giora, Ef. 1. Enn þad mea grœtlegt þykia, ad þess optar sem Lausnareñ JEsus hefur af siñe Nœad viliad vekia mig, þvi fastara hef eg i Synd miñe sofed. Æ! mijna fordæmaãlega Fyfisku! Æ JEsu! Forlæt nuer mijna Synd og Illsku, hvar med eg hefe auked þier Mædu og Hormung, enn aflad mier Straffs og Hegningar. Læt þier þo ecke leidast, minn liwfe DRottenn, ad benda mier i Millde og Myskun þinne, og draga mig, jafnvel med Hormungunum, til sannrar Umvendunar; Eg vil segeñ kyssa a þijna hyrtande Hond med Þockum og Þolennmæde, eñ læt þitt Myskunar Hiarta mier alldrei gleyma. Gladur og giarnann vil eg med Andagt og Elsku hiea þier vaka; Lagfær þu og leidriett nædarsamlega mitt veika Holld og Blood, sem þad vilia ofmiog hindra: Drag mig efter þier, DRotteñ miñ, þa vil eg hlaupa, Lofk. 1. Þu leysder þijnum þreittu Læresveinum um Stund ad sofa og hvijlast; Þar af veit eg, og vona med Glede, ad þu goode JEsu muner og so vægia og vorkienna Veikleika mijnum, þu sem best þecker mijna Skopun, Psal. 103.

Eñ framar skalltu, Sæla mijn, læta Lausnarans Amiñingu til Læresveinanna, vera þier æ tijd i Huga og Miñe vakande: Vak og bid, so þu faller ecke i Freystne, sea er þig svijkur, hann er i

Nœnd

Mand: Daudeñ forrædur ann allrar Vægdar, Fiør og Lijf, og Mala sannast er þad, ad hañ hefur morgum Ovorum ad Hondum komed, eins og Pioofur a Nootty, 2. Pet. 3. Hañs Tijme er ætijd Oviss; Hañs Nalægd alldrei orvænt; Ollum Moñum er aasett einusiñe ad deya, og þar efter kiemur sa Ognarlege DRottens Doomur, Ebr. 9. sa ed giallda mun einum og sierhverium efter hanns Verkum, Rom. 2. Þa mun hiñ Ognarlege Diofull hvad aakafastur, ad vilia draga þær aumu Saaler i Elld eilijfra Kvala, Matth. 25. Siaadu vel til, i JEsu Nafne, Saala miin, ad þesse Ognarlege Her falle ecke yfer þig andvaralaust i Syndunum sofande; Vaktu i heitre Yðran, og alvarlegre Gudrækne, so þu styrk i DRottne og Mætte hanns Kraftar, gieter stadest aa þeirre vondu Tijd. Miklu sijdur gietur þu hiaalpast i Heimenum, eñ Vopnlaus Madur gietur vared Lijf sitt i Bardaganum; Brynia þig þvi med Bæneñe, þvi hun er hin oruggasta Verndar-Hlijf moot allre Neyd, og so sem Lykell ad Guds Naadar Fiaarsioodum. Eiñ lijflaus Lijkame er fyrrtur øllum mañlegum Krafte, og Onijtur til allra Athafna; so er og ein Bænræktarlaus Saal, fiarlæg allre Blessan, Onijt til allra goodra Hluta, og añarleg fraa þvi Lijfe, sem i Gude er. O minn aastudlegaste JEsu! Vak þu i mier med þinne Naad og Giædsku; Gief mier ad vaka i þier i þinne Ast og Elsku. Nær miñ Lijkame hvijlest i sijnu Svefn-

Her-

Herberge, laat þaa Saalena mijna med vakande Ást og Andagt Hvijld. og Hlijfd hreppa i þijnum Myskunar Fadme, Amen.

## 5. Pijslar Þanke.

Um Gydingarna Komu i Grasgardenn.

OG jafnsnart sem hann var enn ad tala umm þetta, sia, einn af þeim Toolf, sem Judas hiet, þa er hann hafde nu til sijn teked Flock Manna og Þienara Kiennemanna Høfdingianna og Phariseanna, kom hann þangad og med hønum Flockur mikill, med Blisum, Lømpum, Sverdum og Staungum og Vopnum, wtsender af Kiennemanna Høfdingium, Skriftlærdum og Auldungum, og hann gieck fyrer þeim. Sem JEsus visse nu allt hvad yfer hann ætte ad koma, gieck hann framm og sagde til þeirra; Ad hverium leited þier? Þeir svørudu hønum: Ad JEsu af Nazareth. JEsus sagde til þeirra: Eg em hann. Enn Judas, sa er sveik hann, stood einnen hiaa þeim. Enn sem JEsus sagde til þeirra: Eg em hann, hørfudu þeir bak aftur, og duttu til Jardar.

Maklega mœ Manñkiñnunar vesæla Lijf i Verolldu þessare, lykiast vid standande Strijd og bloodugañ Bardaga, Job. 7. hvar ed Hœske og Hormungar, vidlykt og Óflyande Hér, fara œ Hendur Guds Elskendum, þeim til Sœlar-Tions og Samvitsku Hrellingar. Alla vegana lijda þau Hrygd, hid ytra Barœttu, hid innra Ótta, 2. Cor. 7. Midt i þvi ad DRottenn vær ad ræda vid sijna elskulegu Læresveina i Grasgardenum, þuste þœngad vopnadur Flockur hanns Óvina: Eins mœttu, Sœla mijn, vid þvi bwast, ad þegar minst Vonum varer, þa er Boden styrer Hende, og jafnvel er Nætur-Hvijlden ecke ætijd Óhult fyrer Reyd og Hœska: Gleymum þvi ecke, Sœla mijn, œ sierhveriu Kvollde, ad œkalla Milldeijkañ JEsum, ad hann vitdest ad vardveita ockur under sijnum Nœdar-Vængium, so vid þurfum ei ad skielfast fyrer Ógn Næturennar. Psal. 91.

Hrædelegt er ad hugleida Ótrygd og Vielræde Svikarans Judœ, hver ed giørdest Foringe þessa gudlausa Skara, og sveik sinn eigeñ Lœvard og Lausnara med Kosse; Varastu, Sœla mijn, þetta vonda Dæme, og hreinsa bæde Huga og Tungu fra allskonar False og Flærœde; Lœt þier til Hugar koma, ad þoott nockrum luckest um Stund ad hylia Prette sijna under Hræsneñar Yferskine, þa sœ þeir þo ecke flyed eda falest fyrer DRottens Doome, sœ ed øllum Yfirbootarlausum til Smœnar og Hegningar mun œ sijnum Tijma

auglijsa, þad sem i Myrkrunum er huled, og openn-berr giora Raaden Hiartnana, 1.Cor.4. Bidium þvi Gud ad skapa i ockur hreint Hiarta, og taka alldrei siñ Naadar Anda burt fraa ockur, Ps. 51.

Eñ framar er hier adgiætande guddoomlegt Almætte vors giædskurijkasta Lausnara JEsu, hver ed med þessu eina Orde: Eg Em Hañ, lagde vid Velle vopnadann Her Ovina sinna. Þetta Almættes Orded JEsu, sem hañs Illskufullu Ovine sellde med Ogn og Skielfingu, mun ockur, Saala mijn, i allre Neyd stydia og styrkia, med Lijf-kroftugre Huggun og Endurnæringu. Þegar eg fell i Synd og Yfertrodslu, og riettlaatur Drottiñ vill reidast mier, sem eg optlega, æ þvi midur! verdskullda, þa geingur lyknarfullur JEsus, sem himneske Aaron, med ylmande Reykelsis Kier sijns Naadhroopande Bloods og Arnadar Ords, midt aa millum þeirra Lifendu og Daudu, 4.Mos.B.16. midt aa millum hins reida Guds og mijn rangláatrar Saka-Skepnu, segiande: Eg Em Hañ, sem med mijnu Bloode og bitru Pijnu, hefe giordt Frid og Forlijkun mille Guds og Manna, Col. 1. Forlaat þvi, kiære Fader! þessum Vesæling, hañs framda Synd; Gief hønum upp af Mylkun þiñe, þad forþienta Straff! O JEsu! gief ad þesse þijn fagra Fridar-Boon, sie og verde miña Synda Forlijkun, miñar Saalar ædsta Huggun! Þegar Andskoteñ vill Ogna mier enn Synden ofbioda

mier

mier og Samvitskan Aklogun veita sokum Illverkaniña, þa mun Naadarrijkur IEsus breida siñ Myskunar Fadm yfir mijna Saalu, segiande: Eg Em Hañ, sem afmaae þijnar Synder, sem añad Sky, og þijnar Misgiorder, sem adra Þoku: Snw þier til mijn, þviad eg vil frelsa þig, Es. 44. Þegar Sootter og Siwkdoomar þvijnga miñ Lijkama, Fatæke og Volæde mæda mitt Hugskot, Bol og Bæagiende særa Hiartad, þa mun Lausnareñ IEsus lijta i Lykn og Naad til mijn, segiande: Eg Em Hañ, sem bæde hefe almaattugañ Krapt og mijskunsamann Vilia til ad græda allar þijnar Meinsemder, Psal. 103. og vil efter wtendad þetta Eymdarfulla Lijf, giefa þier þaa Oflekkudu, Oforgeingelegu og Oumskiftelegu Arfleyfd eilijfrar Sælu og Dijrdar, sem þier er vardveitt i Himnenum, 1. Pet. 1. Eg Em Hañ, sem vil laata þijna stundlega Eymd snwast i eilijfañ Dijrdar Fognud; I Heimenum h.fur þu Preyngingin, enn vert hughraustur, þvi eg yfervann Heimenn, Joh. 16. A Daudans Tijd og Doomsins Dege, þegar oll mañleg Hiaalp er hvad fiærlæguft, vona eg og treyste, þoott overdugur sie, ad milldur Jesus mune verda mier med Myskun siñe nærstur, segiande: Eg Em Hañ, sem efter allar þær Hormungar, sem þu hefur lided i Heimenum, vil nu hugsvala þier med eilijfre Sælu i Himnenum, Jer. 31. so ad þar sem eg er, þar skalltu miñ Þienare vera, Joh. 14. Gack nu blessadur inn i þijns Herra Fognud,

Matth.

Matth. 25.

O minn ästwdlegaste Lausnare! hversu feigen mun eg Eymdum þiäadur Veslingur sofna þa hin seinasta Daudans Dwr i þijmum Myskunar Fadme? Hversu gladur mun eg þa hiedan i Fride fara, og mijn Augu munu siä þitt Naadar Hiälpræde, Luc. 1. Eg vil nu Hiartans feigenn, O minn JEsu! þijnu Elsku Avarpe audmiwklega svara og segia: Eg Em Han, sem gief þier Hiarta mitt, og læt mijnum Augum þocknast þijna Vegu, Ordsk. 23. Æ svara mier aptur ä moot, minn sætaste HErra: Eg Em Han, sem læt mitt Hiarta sundurbrotna til þijn, so eg blijt þier myskunsamur ad vera, Jer. 31. Laat þetta ockar Samtal, liwfaste JEsu, byriast med stadfastre Trw og Von i Naadinne; Laat þad fullkomnast med Fagnadar Sioon og Skodun þijns Andlitis Eilijflega i Dijrdenne, Amen.

# 6. Pijslar Pänke.

Um Judæ Koss og Christi Fängelse.

HAn spurde þä eñ einusiñe: Ad hverium leited þier? Eñ þeir sogdu: Ad JEsu af Nazareth. JEsus svarade: Eg sagde ydur þad; Eg em han. Þar fyrer, ef þier leited ad mier, þa lätid þessa i

 burtu

burtu fara. So ad uppfylltist þad Ord, hvad han hafde sagt, ad eingvum glatadi eg af þeim sem þu gafst mier. En Svikaren hafde giefed þeim sameiginlegt Teikn og sagt: Hvern eg kysse, sa er þad, grijped han, og leided i burt vareygdarlega. Og þa han kom, nælgadist han JEsum ad han kyste han. Og jafnsnart gieck han til hans og sagde: Heill siert þu Rabbi, Rabbi; og kysti han. En JEsus sagde til hans: Vinur, hvar fyrer ertu komen? Juda, svijkur þu Mannsins Son med Kosse? Þa gengu þeir þangad, og lǫgdu sijnar Hendur a JEsum og gripu han.

MEd gudrækilegre Forundran meigum vid, Saala mijn, dæadst hier ad DRottins vors JEsu Christi dijrdarfulla Almætte, og allra hellst hans dæelegre Ast og Mildde. Alhægt hefde Lausnaranum vered, ad lata Ovine sijna liggia flata a Jordunne, eins og þeir, fyrer hans Almættis Avarpe fallner voru, þar til han blessadur hefde giestad fordad sier, og slwed wr þeirra Hondum; En DRotten stood hier ad læingtum frægara Dæasemdar-Verke, en ad frelsa sitt Lijf, han var nu blessadur i Tilbwninge, ad giefa þad wt, til Endurlausnar fyrer alla, 1. Tim. 2. Þess vegna leifde

han

hañ i Lykn og Vægd Ovinum sijnum, ad standa ꝏ Fætur aptur, sagdest vera sꝏ, ad hverium þeir leitudu, og gaf sig so sialfviliugur i þeirra Valld og Hendur; Engeñ megnade hañs Lijf frꝏ hõnum ad taka, helldur lagde hann þad af sier sialfur, Joh. 10. af blijdre Hlijdne vid siñ himneska Fodur, og breñande Elsku til vor auinra Mañа. Tak þier hier af, Sꝏla mijn, Lijfkrofťuga Huggun og gledilega Trwar-Styrking. Enginn Ovinur megnade þijnum Lausnara, ꝏn hañs eginn Vilia, hid miñsta Mein ad viña; Engiñ Andskote kañ þier helldur, ꝏn hañs Leyfis edur Lyknar-fullrar Radstofunar, hid miñsta Grand ad giora; So adgiætед Auga Fodurlegrar Forsioonar hefur JEsus vakande yfer Elskendum sijnum, ad øll þeirra Høfud-Hꝏr eru talenn, og eckert af þeim fellur ꝏ Jord ꝏn hanns Nꝏdar-Vilia, Matth. 10. Fleyg þvi allre þinne Ahyggiu uppꝏ JEsu Forsioon og Fodurlega Umsorgun, hann mun þig alldrei ad eilijfu yfergiefa, Psalm. 55. JEsus giørdest sijnum himneska Fodur hlijdenn allt til Krossens Dauda, Phil. 2. Þarmed hefur hañ blessadur fullkomna Boot og Forlijkun giørt fyrer mijna margfallda Ohlijdne; Hañ galdt þꝏ Skulld, sem eg ꝏtte ad gialda; Hann bar þad Straff, sem eg ꝏtte ad lijda; J hañs Nafne og fyrer hanns Forþienustu, er og verdur miñ Misgiorningur fyrergiefenn, og hefe Tvøfalldlegt, nefnilega: Fodurlega Fyrergiefning og Sꝏluhimlp

hiœlplegt Riettlæte, med tekeð af Hende DRottens fyrer allar mijnar Synder, Es. 40. O! mijn Sœl, gleym alldrei, hvilijk þijn Skyllda sie aftur œ moot, fyrer þessa Ometannlega Lausnarans Ast og Millde; JEsus gaf siœlfviliugur sitt Lijf þier til Frelsis og Endurlausnar, gief honum þitt Lijf og alla Lijfsins Krapta til so viliugrar sem skylldugrar Þioonustu og Þocknunar; Hans Nœdar Vilia skallt þu giarnañ giora, hans Lijfsins Orð ydduglega i Huga og Minne varðveita, Ps. 40.

Vor Formooder Eva liet banvœna Lysting til þess bannaða Eplis tœla Munn sinn, sier og allre Verolldu til Olucku og Angistar, 1. Mos. 3. JEsus leisde Svikaranum Judas að miñast vid sijnar œstwdlegu Varer, œ hveriar Nœdeñ er wthellt, Ps. 45. ollum Nauð-lijðande Sœlum til Lyknar og Svolunar. Miñ goode og Giœdskurijke Herra, sem Svika-fullañ Flœrœdis Koss fieckst að reyna, vyrdstu myskunsamlega að varðveita mig frœ Diofulsins, Heimsins og Holldsins Svikum, so eg kunne þau i þijnum Krafte gleðilega að yfirvinna; Lœt þijna Myskun og Trwfeste geyma Lijf mitt og Æru frœ allre Smœn og Olucku, Psál. 57. Þegar Diofulsins og hans Utsendara Fals og Hrecker vilia sigta mig sem Hveite, virdstu þa, blessaðe Lausnare minn, best fyrer mier að bidia, so mijn Trw þrotne ecke, Luc. 22. Oll Veralldarñar Prettvijse og Svik eru ber og nakenn fyrer þijnum blessudu Augum, Ebr. 4. DRotteñ miñ,

lat

Lǽt alldrei þǽ fordǽmanlegu Audstygd stadnǽmast i mijnu Hiarta; Þu ǽvarpader þiñ Svikara med Vinar Nafne: Veit, ad eg aumur Veslingur megi heita og vera þiñ elskande Vinur og ǽstrijkur Lǽrisveinn, sǽ er af Hiarta hlijde þijnum blessudum Bodordum, Joh. 15. og efter þijnum Vilia framgǽnge i Einfalldleik og Guds Grandvarlegleika, 2. Cor. 1. Þad mǽ med ollum Riette segia, ad vid, Sǽla mijn, sǽum i andlegann Mǽta ad miñast vid JEsum, þegar vid i þvi hǽverduga Altarisins Sacramento medtokum med Muñinum hañs allra heilagasta Lijkama og Blood, sem wtgiefed er Heiminum til Lijfgunar, Joh. 6. Giǽtum ad ockur i Guds Nafne, Sǽla mijn, og giefum þa ecke ockar ǽstrijka Frelsara nockurn falskañ Flǽrǽdis edur Hrǽsniñar Koss; Proofum ockur med heitre Hiartans Andagt, og prijdum ockur med sannre Ydran og Sǽluhiǽlplegre Trw, so vid verdum ecke sek vid Holld og Blood DRottins, 1. Cor. 11. Minnunst med heitre Elsku og Bǽnar Kosse vid þann blessada Guds Son, so hann verde ockur ecke reidur, Psalm. 2.

J annann Mǽta vitnar Historiañ, ad hinn Gudlause Gydingañá Skare hafe þad blessada Guds Lamb, Lausnarañ JEsum, Hondum teked og i Fiotur fǽrt, hvar af hañs helgasta Hollo hefur ǽn Efa mǽtt hryggilegre Medferd, og hon-

um Mÿſkunarlauſt misþyrmt vered. Miñ Hiartans Giædſkurijkaſte Lauſnare, Med audmiwkum Tarum og Trega man eg þad med kieña, ad eg hefe med ſyndugum Hondum Glæpa miña, orded ſo ſem ſamtaka Ovinum þijnum, ſem kromdu og kvolldu med hordum Fiotrum þiñ helgaſta Lijkama: Þeſs ydrar mig nu af ollu Hiarta; Æ O Rotteñ, myſkuna mier epter Myſkunſemd þiñe, og afman mijnar Synder eftir þiñe ſtooru Giædſku, Pſ. 51. Þu lietſt þig ſem aũann Fangafiotra og binda; veit mier ad odlaſt nadarſamlega Lauſn og Kvittun minna Synda i þijnu Nafne: Þu varſt med hordum Fiotrum reyrdur; lat mig alldrei ad eilijfu ſlitenn verda wr þinne Myſkunar Hende, Joh. 10. Þu lietſt Kvalanna Fiotur a þig leggia: Veit mier, ad eg laus ur ollum Bolvunar Snorum, mætte i þijnum Elſku og Nadar Bondum, Hoſ. 11. bæde lifa og deya: Giefdu mier þad, O Rottenn minn, ad Minning þeirra hordu Fiotra, ſem þiñ helgaſta Lijkama kromdu, aptre æ jafnann og i Taume hallde ollum mijnum Tilhneigingum, Lidum og Limum fra vondum Glæpum og Gudſlauſu Holldſins Giarlijfe: Bind mijna Saalu vid þitt Myſkunar Hiarta, med Elſkunnar Bande. Feſtu Vilia minn vid Beginn þinna Bodorda med Hlijdnennar Fiotrum, ſo ad eg med lidugu Hiarta og loſtugu Giede, þione trwlega þijnum Nadar-Vilia, og bevare þijn bleſſud Bodord allt til

Enda,

Enda, Amen.

## 7. Pijslar Pǽnke.

Um̃ Vorn St. Peturs og Malchus Eyra-Sǽr.

ENN þa þeir, sem hia hønum voru, sau hvad verda villde, sǫgdu þeir til hañs: Herra! Skulum vier ecke slǽ miz Sverde? Og sia, ad Eiñ af þeim, sem med JEsu voru og þar stoodu, Simon Petur, hafde eitt Sverd, riefte wt Hondena og rickte þvi, og sloo til Presta Høfdingians Þienara, og hioo af hønum hañs hid hǽgra Eyra, og sa Þienare hiet Malchus. Eñ JEsus svarade og sagde; Leifid þeim ad giora eñ frekar, og sagde til Peturs: Sticktu þijnu Sverde i Slijdrer, þvi hvør er Sverded tekur, sa mun fyrir Sverdi farast. Eda meinar þu ad eg kuñe nu ecke ad bidia miñ Fodur, þad hañ sendi mier meir eñ Tolf Legion Engla? Skal eg ecke drecka þañ Kaleik, hvern ed miñ Fadir befur mier gieñd? eñ hverniñ skyldu þa Ritningarnar uppfylldar verda? þvi þad hlijtr so ad skie. Og

 hañ

hañ aahrærdi hañs Eyra, og læknade hñ.

**P**Vi stærre sem er Hœske og Hormung þessa daudlega Lijfs, þess gudrækelegar ættum vid, Sœala mijn, ad giæta þess, ad framganga forsiaal lega, og hafa jafnañ vakande Auga aa þvi, hver ad sie Vilie DRottens, Eph. 5. Læresveinarner spur du Lausnarañ JEsum Rœda, hvert ei skyllde til Vopna taka, so afvendt yrde yfirvofande Vœda? Giorum hid sama, Sœala mijn! Leitum i sierhverju uppœafallande Vanda-Efne goodra og gudrækilegra Rœda, Syr. 37. og leggium alldrei Hug nie Hendur aa þad Verk edur Aform, sem ecki er i Otta DRottens, og med Raade stofnad, þvi þad verdur ad eingu og til Oluckuñar einar, Ordsk. b. 15. Reidum ockur ecke helldur ofmiog uppaa Mañana Rœd, þvi þau eru opt vidsiaal og vandhitt, hofum vid þvi almœattugañ Gud fyrer Augunum, og laatum hañs H. Ord vera ockar Rœadaneyti, so vid hotum alla vonda Vegu, Ps. 119.

DRotteñ bañadi Læresveinunum ad bregda Sverde, edur brwka þad til Varnar sier: Þar eru Tveñslags Sverd, sem Meñ hafa medferdis i Heimenum; hid fyrra er Sverd þess veralldlega Rettar, eda Doomara Embættesins, sem Drotteñ hefur Valldstioorneñe i Hendur feinged, ad hun skule bera þad og bregda þvi goodum til Forsvars og Fridar, eñ vondum til Straffs og Hegningar, Rom. 13. Þad añad er Sverd eigeñ

Hefndar og Heiptargyrne, hveriu JEsus alvarlega bañar med Bræde ad beita, eñ alvarlega bijdur ad geyma þad i Slijdrum christelegrar Hoogværdar og Poleñmæde. Take sier hier af gudrækelega Aminiñg aller Virduleger Yfirvallds Meñ. 1.) Ad þeir, so sem rettskickader Drotteñs Þienarar, fari i Guds Otta vel og varlega med Sverd Lagaña og sijns Embættes Myndugleika; Laate þad særa og stijnga Illvirkia og vonda Meñ, eñ vernda og forsvara frooma og rædvanda Guds og Kongsins Þegna, so vier mættum hafa spakt og roosamt Lijferne i allre Gudrækne og Sidseme, 1. Tim. 2. 2) Varest aller Yfervallds Meñ, ad brwka sijns Embættes Valld og Myndugleika, til ad sækia siñ eigeñ Rett, eda hefna sijn a þeim, sem þeir þykiast sialfer eiga nockrar Saker vid; Giæte þeir þess, ad JEsus vill þeim i soddañ Tilfelle sagt hafa: Sticktu þijnu Sverde i Slijdrer, þvi hver sem tekur Sverd Heiptar og Hefndargyrne, hañ skal farast fyrer Sverde Reide og Refsingar. Giallde þvi engeñ, sem Guds Barn vill vera, nockrum Mañe Illt a moote Illu, helldur legge Kapp a gudrækelega Goodmeñsku; Hefne sijn engeñ sialfur, helldur giefe Rwm Reide DRottens, hañs er Hefndeñ, hañ mun endurgiallda, Rom. 12.

Enn framar athugum vid, Saala mijn, ad Malchus, sem miste sitt hægra Eyra i Flocke JEsu Ovina, mæ med ollum Rette merkia Guds heilogu

logu Orda Foraktara sem læra sig Christna kalla eñ apturbirgia þo, edur og ølldunges afhøggva þad hægra Eyrad Hiartañlegrar Andagtar, med hverių þeir ættu ad heyra þa sætu DRottens Orda Roddu sier til Sæluhiælpar, halldande heilu og opnu hinu vinstra Eyra, hvert ed laungum klæar epter skamarlegum Ordum, Fiblslegu Hiale og Kieskni, sem christnum þo ecki sømir, Eph. 5. Þetta er hid vissasta Merke allra DRottens Ovina, ad heyra ecke Guds Ord med nockri Andagt, þvi þeir sem so giøra, eru ecke af Gude, Joh. 8. Jeg grætbæne þig, miñ Giædskurjste JEsu, lat hverke þetta nie añad Ogudlegleikans Merke a mier siast eda fiñast; Lat mig so þitt Ord med Eyrunum heyra, ad eg meige þijna Elsku i Hiarta mijnu vardeita, allt þangad til eg fæ ad elska þig fullkomlega, og sia þig berlega i eilijfu Lijfe.

Ad sijdurstu skijn hier fagurt fyrer Augum ockar, Sæla mijn, blessud JEsu Ast og Naad, er hañ auglijste med þessum Ordum: Skal eg ecki drecka þañ Kaleik hvern miñ Fadir hefur mier gefid? Lærum hier af Lausnara ockar heilaga Þolenmæde i Hørmungum øllum, sem honum blessudum þocknast a ockur ad leggia. JEsus nefner sijna Kvøl, sem hañ leid fyrer ockur, Kaleik af sijnum himneska Fødur ræskeinktañ; Guds Ande nefne t med sama Nafne þær Hørmungar, sem hiñ eilijfa Blædskañ lætur sijnum Elskendum til Handa bera i Heime þessum; Þu fæder þa med Har-

Jorduñe, og öllum Skiepnunn, sem a heñe hrærast, bloodnilegann Avøxt Blessunareñar, so ad fyrer JEsu guddoomlegann Almættis og Myskunar-Krapt vidhalldast og forsorgast bæde Menn og Skiepnur af ærlegum Jardareñar Grooda, og Gud upplijkur siñe Orlætis Hønd, og sedur allt hvad lifer med Velþocknan, Psal. 145. Gleym þu alldrei, mijn Saal, þennañ addaaañlega Myskunar-Velgiorning hins eilijfa Guds, med audmiwkre Lofgiord og innelegasta Astar-Packlæte, ad vijdfrægia og vegsama, ja, allt hvad Andardraatt hefur þad lofe Nafned DRottens.

Yfer mijnu Høfde hieck Ognarlegur Þywnge Bølfunareñar, sem Logmaaled hootade; JEsus hefur bored þañ hvassa Þyrne-Krans a sijnu heilaga Høfde, so hañ leyste mig fraa allre Bølfan, eñ koronade mijna Saal med Naad og Blessan, so sem med Skyllde einum, Psal. 5. Fyrer þañ Kvala-saara Þyrne-Krans, sem miñ Lausnare hlaut hier ad bera, veit eg og vissulega trwe, ad hann blessadur hefur afrekad mier aumum Vesælinge fagra Koronu Myskunareñar hier tijmañlega, og skijnande Koronu Dijrdareñar i Himnarijke eilijflega, 1. Pet. 5.

Mier þiker bæde vonlegt og verdugt, ad þier, mijn Saal, ofbioode dæmalaust Gudleyse hinna vondu Þræla, sem þijnum hiartkiæra Lausnara giordu þad allt til Haadungar og Kvala, sem þeir

giætu verst upphugsad, þeir Ovirdtu hans Gud-doomlega Persoonu med Ordunum, hæddu hans himnesku Kongs-Tign med Atlotunum, og afmindudu hans helgustu Asioonu med Hrækum og Slogum; O! giæt þijn, i Guds Nafne, Saal miin, ad þu laater þad eckert finast i Fare þijnu, sem komast meige i nockurn Samjøfnud vid soddan Ohæfu. Vakta þig þa þu geingur i Guds Hws, Pred. 5. hvar blessadur JEsus hefur lofad med sierdeilis næakvæmre Naadar Naalægd, ad vera midt æ medal sinna elskulegra Barna, Matth. 18. Siæ þa vel til, ad þin Guds Otte sie eingen Hræsne, og ad þu hæder ecke þin Munnen ad niju med fölsku Hiarta, Syr. 1. edur hræker i hans helgustu Asioonu med kraptarlausu Gudrækninnar Yfirskyne; Under eins og þu giorer i Guds Hwse Lijkamans Knie ad begia, þa læat fyrst og fremst Hiarta þitt og Hugskot med alvarlegre Andagt og Lotningu audmykia sig under Guds vollduga Hond, og fyrer hans dijrdarfulla Tignar-Velldi þa Hugleid, ad þu ert eingu betre Prælum þeim, sem hræktu i HErrans Asioonu, þegar þu einasta hefur Yfirlit Gudlegs Athæfis, enn afneitar þess Krafte, 2. Tim. 3.

Ad sijdurstu sie eg hier bæde Ognarleg Giølld minna Illverka, og i annan stad Ometanlegann Mikilleik þinna Myskunsemda, minn HErra JEsu! Allt hef eg brotlegur Synda-Præll til þess

unned

uned, ad eg skyllde med Smaan og Vanvirdu utskwfast fraa þijnu Naadar og Dijrdar Auglite, og verda ad Anstygd ollu Hollde um Oendannlega Eilijfd, Es. 66. Enn eilijft Lof sie þier, Lausnare minn, þu sem mig hefur so naadarsamlega fraa þeirre Olucku endurleyst! Oll þijn Læging er mijn ædsta Upphefd; Oll þijn Hædung aflar mier eilijfs Sooma; Þau þrongu Hoggen, sem þitt helgasta Hofud særdu, endurnæra, græda og gledia mitt hrædda og harmþrwngna Hiarta; J þijnu Nafne, og fyrer þijna Forþienustu, mun eg, þoott bæde sie nu Syndum vafen og Sorgum hladenn, so sem dijrmætur Sonur og elskulegt Barn, af þijnum og mijnum himneska Fodur i Naad og Millde viðtekenn og meten verda, Jer. 31. Æ! þad er mijn stærsta Skyllda, þad skal og vera mijn ædsta Glede, so leinge volgur Blood-Drope er i mijnum Ædum, þijna heitustu Hiarta-Giædsku ad vegsama, þijns heilagasta Nafns Æru ad vijdfrægia. Feigenn vil eg einnen, Frelsare minn, þessa Heims Adkast og Armædu, epter þijnum Naadar-Villia, þolenmoodlega lijda; Enn veit þu mier, O Drotten, Fullkomnu. Feigenn tijnge þinnar Lyknar og Lidsemdar i allre minne Neyd. Amen.

## 25. Pijslar Panke.

Um Utleidslu Christi wr Þijngs-Hwsenu.

Pilatus

Pilatus gieck þa wt aftur og sagde til þeirra: Siaed, eg leide han nu wt hijngad til ydar, so ad þier vited, þad eg fin einga Søk med hønum. So gieck JEsus wt, berande Þyrne-Koronu og Purpura-Klæded, og han sagde til þeirra: Siaed Mañen! Þa er Kieñemaña Høfdingiarner og Þienararner sau hn, kølludu þeir og søgdu: Krossfestu, krossfestu. Pilatus sagde til þeirra: Taked þier han og krossfested, þviad eg fin einga Søk med hønum. Þa svørudu hønum Gydingar; Vier høfum Løg, og effter vorum Løgum a han ad deya, þvi han giørde sig sialfan ad Guds Syne.

OGnarleg hefur vered Bræde og Blindne Jesu Ovina, sem so herfilega wtlieku og ranglega kløgudu hid blessada og saklausa Guds Lamb; Þeir villdu eckert hans Forsvar heyra, einga hans Afbotun meta; einga Laga edur Riettinda giæta; Þeir dæmdu þad Dauda-verda Gudlostun, sem þo var sialuhialplegur Guds Sanleike, er Drotteñ kvadst Guds Sonur vera. Varest soddann vonda Rangsleitne aller þeir, sem Guds Børn vilia kallader verda. Varest þeir, sem Gud hefur Valldstioornar-Sverded og þad veglega Domara

ara Embætte tiltrwad, ad laata Heiptarfulla Aklogun vondra Maña villa sig til ad tradka rieitu Mæale og Forsvare þess, er Ræanginden lijdur; Brwke þeir Valld sitt og beite Sverde Lagaña Illvirkiunum til Hefndar og Leidriettingar, enn goodum til Forsvars og Styrkingar, 1. Pet. 2. O! miñ HErra JEsu, med hrygguog harmande Hiarta hugleide eg þitt sæara Kvalræde, þvi eg veit ad þess vegna var þijn Pijna so mikil og megn, ad mijn Afbrot eru so morg og stoor, eñ med glodu og fagnande Hiarta dæmest eg ad þijnu sañ-heilaga Sakleyse, æ! læt þad, Lausnare miñ, mijna Synda Sok bæta, miña Synda Bolfan burt taka, mitt Synda Straff forlijka; Byrg þitt Andlit fræ mijnum Syndum, og afmæ þu allar mijnar Misgiorder, Psalm. 51.

Enn framar gefst ockur Ordsok, mijn Sæal, med gudrækilegre Andagt ad hugleida, og so sem eitt Innsigle æ ockar Hiarta ad festa þæ hryggelegu Kvol, sem JEsus leid fyrer ockur, og þæ hæa-dijrmætu Ræad og Myskun, sem hann afrekade ockur, þa hañ gieck wt wr Doom-Hwse Pilati, berande Þyrne-Koronu og Purpura-Klæde. Vid ættum, Sæal mijn, epter ockar Verdugleikum, allsnakenn og bersnaud af allre Blessan og Glede, eñ i-klædd Bloodskulldar Forsmæan og Bolfunar Ræanglæte, ad wtskwfast fræ allre Guds Ræad og Myskun, og varpast med Hleckium Myrkraña i eilijfar Helvijtis Kvalir, 2. Pet. 2.

O! þaa skamarlegu Syndanna Svivirding, O! þau skielfelegu Syndanna Verdlaun! Gud vęke minne Blindne, lagfęre mijna Breitne, og nyskune mine brotlegre Sǣlu! Enn eilijf Dijrd sie þier, O Drottenn minn, þu varst med Smaan og Hædung wtleiddur wr Doom-Hwse Pilati, so eg skyllde med Naad og Heidre verda innleiddur fyrst i þitt Naadar-Rijke hier i Heime, sem er Riettlæte, Fridur og Fognudur i heilogum Anda, Rom. 14. og sijdann til þijns yndisfulla Dijrdar-Rijkis i Himninum, hvar ed vera mun Gnoogt Fagnadar og gledilegt Lijferne til þinnar hægre Handar eilijflega, Ps. 16. Þu lietst þig med Hryggd og Hormung wtleida, og þvi fæ eg i þijnu Naadar Nafne, med Blessan og Glede, ad gaanga wt og inn, so lenge sem þu lofar mier ad lifa; Og þegar þier, O Drottinn minn, þocknast ad kalla mig hiedann, fyrer tijmannlegann Dauda, munu mijner Brædur, sem epter þreya, wtbera mitt andvana Lijk til ǣskilegrar Hvijldar i Svefnherberge Gt-afarennar, Es. 56. enn þijner heilager Englar munu þa leida mijna Sǣlu burt wr ollum Eymdum, i fagrann Abrahams Fadm eilijfrar Sǣlu og Ununar; Þa munt þu, minn JEsu, sem minna vegna barst Kvala sarann Þyrne-Krans og forsmaanarlega Purpura-Flijk, giefa mier, ad afstodnu mijnu Mootlæte, fagra Dijrdarinnar Koronu: Þu munt bijgæsa mig, ad sigrudu ollu mijnu Andstreyme, med skijnande Sǣlu-Skarte og Sigur-

vinn-

viñingar Pꝫalm-Vid frame fyrer þijnum Tign-ar Stoole, Þa munu heilager DRottins Eng-lar hroopa yfer mier med himneſkre Dijrdar Ki-ære: Siaied Maññ, þañ ſem komiñ er wr mik-lum Hormungum, og hefur ſiñ Skrwda þveiged og hvijtſꝫagad i Lambſins Bloode; Þa munt þu Sꝫal mijn, ad eilijfu Eymda frij, og ordiñ hluttak-ande himneſkrar Sælu, fagurlega ſijngia eilijft Fagnadar Haleluja, og med lyſteleguſtu Englaña Rodd ſijngia og ſegia: Daude, hvar er þiñ Br-oddur, Helvijte, hvar er þiñ Sigur? Gudi ſie Lof, ſem mier hefur Sigureñ giefed fyrer vorn Drott-enn JEſum Chriſtum, 1. Cor. 15. O! þu lif-anda Guds Son, miñn liwfaſte Lauſnare JEſu, þu ert ſannarlega Chriſtur Sonur Guds, Matth. 16. Þu eingietne Sonur Fodurſins, ſem ert i hans Skaute, hefur þiñ Sonar Arf, ſem er Naad, Sannleike og Sꝫaluhiꝫalp, ollum oſs þijns Fod-urs Bornum og Brædrum giefed. Þier, þu So-nur Guds, ſem ſiꝫalfur ert ſannur Gud og þad eilijfa Lijfed, 1. Joh. 5. ſijngeſt æwarande Lof og Odaudlegar Hiartans Þacker af ollum Twng-um Engla og Manna, nu hiedann i frꝫa og um all-ar Allder, Amen.

## 26. Pijſlar Pꝫanke.

Samtal Chriſti vid Pilatum.

Hat Pilatus heyrde þad Ord, Ottadist hañ eñ meir, og gieck aptur i Þijng-Hwsid, og sagde til JEsum: Hvadañ ert þu? Eñ JEsus gaf hønum eckert Svar. Þa sagde Pilatus til hañs: Talar þu eige vid mig? Veitst þu ecke, ad eg hefe Rad til ad krossfesta þig, og eg hefe Rad til ad giefa þig lausañ? Jesus svarade: Eige hefder þu nockud Valld yfer mier, nema þier være giefid þad hier ad ofañ, fyrer þvi hefur sa meire Synd, er mig ofurselde þier. Og eptir þad leitade Pilatus vid, hverniñ hañ giæti lætid hañ lausañ: Eñ Gydingar hroopudu og søgdu: Ef þu lætur þeñañ lausañ, þa ertu ecke Keysarans Vinr. Þviad hver sim sig giorir ad Kongi, hñ er a moti Keysaranum.

HRædilegt og aumkunarverdt er ad hugsa um þad, ad þeir sem vilia Christner kallast, skule læta sier midur fara i þvi, ad elska og Ottast hiñ eilijfa og alvallda, hiñ lifanda og lyknarfulla Gud, helldur eñ Heidingium foor i þvi, ad heidra og hrædast þau daudu Lykneske og Mæallausu Skurgod, er þeir af Diøfulsins Jñblæstre meintu og trwdu Gude vera; Og so kvad ramt ad Blindne

þeirra,

þeirra, ad þeir hielldu God siin mundu gieta Børn af sier eins og adrer hollleger Meñ; Og hefur Pilatus kanske leidt i Huga sier, ad JEsus, sem kvadst Guds Sonur vera, være af soddañ Godaña Kyne boreñ, og þvi Ottadest hañ eñ meir, viliande fara sem varlegast ad Rannsookn þessa Maals, so hann fellde ei yfer sig Godanna Reide. Hafe nu Heidner Meñ bored soddañ Blygdun og Virdingu fyrer siinum vesælu Afgudum, sem þo eru eingu neyter, og ecke añad enn Vindur og Hiegoome, Es. 41. O, hversu miklu framar ættum vier, christner Meñ, sem vitum og trwum, ad þar er einn Gud til, einn sannur Gud, einn lifande Gud, einn eilijfur Kongur, fyrer hvers Reide Jordenn skielfur, og enginn kann ad þola hanns Ognan, Jer. 10. O, hversu miklu framar ættum vier ad blygdast fyrer hanns hæleita Heilagleik, ad hrædast fyrer hanns strænga Riettlæte, ad umfadma og elska hanns fødurlega Giædsku og Myskunsemi med allre Hlijdne, Ast og Undergiefne, giætande þess, ad i hañs volldugu Almættis Hond er ollum ydrunarlausum og ogudlegum ognarlegt ad falla.

Frævijslega foor Pilato, er hañ stærdé sig af Magt siñe, og meinte sier leifelegt ad beigia Veg Rettarins epter Villd siñe; Varest soddañ vondt Dramblæte aller Heidvirder Yfermenn, og giæti þess, ad þeir hafa Valld sitt og Umdæme þeiged af Guds Naadar Hende, og eiga þvi epter Guds Naadar Vilia og Laganna Reglu, enn ecki epter

sijnum eigenn Hugþootta, med þad ad fara: Gud hefur giefed þeim Heidur Maktarinnar, og heimt-ar þvi af þeim aptur aa moot Heidur Hlijdnennar; Virdingar og Æru meiga þeir ad vijsu, vegna sijns Embættis, niota, enn varast eiga þeir med Hofmood eda Raangsleitne annarra Heidre edur Sakleise ad nidra; giætande þess, ad Gud straff-ar hina Dramblaatu, og bølfader eru aller þeir, sem þverwdarsamlega burtvijkia fraa hanns Bod-ordum, Ps. 119. Vor Yfervolld eru af þeim hær-sta Himens og Jardar Drottne yfer oss sett og skipud, hvar oss skyldt ad veita þeim alla tilbærie-lega Hlijdne, Elsku og Undergiefne, Rom. 13. Virdum og heidrum þad veglega Rettarins og Laganna Sverd, sem þau i Hendi hafa; Vor-unst Illverk og vonda Glæpe, hverium Vallded er sett til Hegningar; Enn kappkostum ad lifa i skylldugre Hlijdne vid Guds Ord og Konungsins Løg, þa munum vier af Valldstiettenne hafa Frel-se, Frid og Lofstijr. Þad er riettvijst, ad Straffed se ad þvi Leite þrongt aalagt, sem Synden er stoor til, 5. Mos. B. 25. Saa hlijtur hardare Hefn-dum ad mæta, sem verr og Oguddlegar hefur breitt. Ydran og Yferboot finnur jafnann Vægd og Myskun, enn Þrioosku og Þverwd er vijs Reide og Stroffun bæde af Gude og Monnum: Saa Þion, sem veit Vilia sijns HErra og giører hann ekke, hann mun liida marg Høgg, Luc. 12.

Vern-

Vernda þu og blessa, goode Gud! oll vor Yferuolld ædre og lægre Stiettar; Gief þu ad þau Ryke og fordest illt Hneixle og alla Rangs-leitue; Gief ad þau elske, adhylleft og ræke gooda Landstioorn og gudrækelegt Framferde; Gief ad aller Undergiefner giære med Gudrækne sinnar Skyllldu i þvi ad Ottast þig, heidra Konungenn, 1. Pet. 2. og elskast innbyrdes, so sem Christnum sømer, so vier aller under þinne Vernd og Blessan, mættum lifa i Fride og Kiærleika med allre Gudrækne og Sidseme, A M E N.

## 27. Pijslar Pausse.

Pilati Samtal vid Gydinga a Doomstoolnum.

Sem Pilatus heyrde þad Ord, leidde hañ JEsum wt, og sette sig a Doomstooleñ i þeim Stad, sem kallast hiñ Steinlagde, eñ a Ebresku Gabbatha, eñ þad var Adfanga-Dagur Paaska nærri Siottu Stundu: Þa seger hañ til Gydinga: Siaed, þad er ydar Kongur. Eñ þeir kolludu: burt, burt med hañ, krossfesta hañ. Pilatus sagde til þeirra; Skal eg krossfesta ydar Konung? Kieñemañá Hofdingiarner svorudu; Eingañ Kon-

ting høfum vier nema Keysarann. 16

Ecke er þad ad undra, þott Ord Drottens hrope so Ognarlega Reide og Bölfan yfir einum rangláatum Doomara, sem veit Riettindenn, en giörer þau ecke, Jer. 5. og lætur Manana Myndugleika hræda sig, edur þeirra Vinattu locka sig til ad hiaalpa ecke þeim Fatæka til Rettar; Þvi so sem Raadvendne og Riettvijsi er hinum naadugu Gude þeck og þægeleg, so er eiñenn Maalafylge og Rangsleitne sw argasta Svivirding fyrer hanns hijrdarfulla Auglite, Ordsk. B. 17. Varest þvi aller Heidvirder Meñ, og sierdeiles þeir, sem Drottenn hefur Doomara Embætti tiltrwad, illt Dæme hins heidna Landsdoomara Pilati, hver ed so Ogudlega sem heimskulega hræddest framar Keysarans Reide, helldur eñ hiñ lifanda Gud, og mat meir sitt eiged Gagn, helldur eñ Sanleikann og Gooda Samvitsku: Og er þaa illa fared med Sverd DRottens, þegar Menn þannig beita þvi, til ad nidurbriota Guds, enn uppbyggia Andskotans Rijke, til ad spilla annarra Rett, enn myrda sijna eigen Saalu. Vakte sig þvi aller goodeir Menn fyrer soddañ vidurstyggelegre Smaan og voveiflegum Saalar Haaska: Laate aller Doomendur Otta DRottenns hiaa sier vera, so þeir vardveite sig og giöre þar epter, 2. Chron. 19.

Med Hiartans Glede og Lofning swij eg Hugreñingum og Maale mijnu til Þijn, miñ haableßv-

ade Lausnare JEsu! Pilatus kallade þig Kong, ung med Spie og Hædne: Gydingar hroopudu yfir þier Kvol og Krossfesting med Offa og Ogn= ar Bræde: Eñ miin Sæl veit og trwer, vidurkieñ er og jatar med diwpustu Audmijkt og heilagre Hiartans Glede, ad þu, miñ JEsu, ert einn Gud og Konungur fra Eilijfd til Eilijfdar, Ebr. 1. Þu ert Konungur bæde a Himne og Jørdu, Kon= ungur Engla og Maña, Konungur hinnar ædstu Magtar og mestu Myskunar, af Gude þijnum himneskum Fodur smurdur med Gledennar Vid= smiøre laangt fram yfir þijna Hluttakendur, Psal. 45. Og þo hefur þu, O HErra, so diwpt lijtelækk= ad þig, mier vesælum Jardar Orme til Myskun= ar, ad þu stoodst bundenn og fiotradur, so sem hinn argaste Illrædes Madur fyrer Ogudlegra Maña Doome, og varst af øllum æklagadur, wt= skvfadur og til Dauda dæmdur. O JEsu! Eg trwe stadfastlega, og bid audmiwklega, ad þu laat= er mig aumann Vesæling niota þessarar þinnar diwpu Nidurlægingar, þegar þu kemur a sijdar= sta Dege i Skyunum, med stoorum Krapte og Dijrd, til ad dæma alla Jardar Krijngluna med Riettvijsi, Post. G. 17. Þu mætter Aklogun og Sakfelle fyrer ranglaatum Manna Doome: Gief, ad eg heilagur og ostraffannlegur i Fride fundenn verde fyrer þijnu Auglite a þeim efsta Dege, 2. Pet. 3. Þijner Ovinir lietu hier Ill= skufullt Kvala Hroop fyrer þijnum Eyrum

 hlioo=

hlioma: DRotten minn, gief ad eg fáe þar glede-
legt Náдar Avarp af þijnum blessada Munne
ad heyra; Þu varst af øllum sem Illvirke reiknad-
ur; Veit ad eg, asamt þijnum blessudum Børn-
um, sie og verde talenn, og a Lijfsins Book teikn-
adur. Med audmiwku og Elskufullu Hiar-
ta vil eg þig minn Konung kalla, tigna og tilbidia;
Virdstu i Náд og Vægd ad þeckia og medtaka
mig fyrer þinn Þræl og Þenara; Eckert Ver-
alldarennar Herradæme vyrde eg til jafns vid þa
Æru; Allt Heimsins Goß og Glis vil eg fegen
fyrer Þreck hallda, uppa þad eg avinne þig,
minn JEsu, og mege niootande verda þijns saalu-
hialplega Riettlætes, þijns guddoomlega Náд-
ar Hialpræдes, þinnar eilijfu Dijrdar og Sæ-
lu, Phil. 3.

A þad hvar sa Gabbatha Stein-Stræte liet
giœdskurijkur JEsus sig leida, so eg mætte, i alls-
konar Heimsins Hættu og Hormung, hans Lijk-
nar og Varatecktar niota; Hann er vor Gud,
uppa hvern vier vonum, og hann mun hialpa
oss, so ad vier glediunst, og sieum glader i hans
Hialpræde, Es. 25. O HErra JEsu! Þu
blessade Konungur yfir Guds heilaga Fiall Zion!
Psal. 2. Þijn dijrkeypta Christne kijs þig, tignar
og tilbidur, so sem sitt Hofud, sinn HErra og
Konung; Æ laat hana under þinne nádarfullu
Kongs Stioornan vidhalldast, verndast og bless-
ast, so Port Helvijtanna megne eckert a moti henni,
Matth.

Matth. 26. Vertu hennar Hiælpar Skiølldur og Sigurvinningar Sverd, medann hun er hier i Heime striidande; Og veit henni ad sijdustu fyrer þijna Naad i himneskum Dijrdar Fride ad verda eilijfum Sigre hroosande, AMEN.

# 28. Pijslar Pænke.

Um̃ Pilati Handa Þvott og Doom.

EN er Pilatus sæ þad hann kom eingu til vegar, helldur, ad þar yrde eñ meira Upphlaup af, took hañ Vatn og þvodi Hendurnar fyrer Foolkenu, og sagde: Saklaus er eg af Bloode þess Riettlæta, sicied þier til. Þa svarade allur Lijdur og sagde: Hañs Blood koine yfir oss, og yfir Børn vor!

Ognarlegt er ad hugsa um̃ þad, hversu hersi- lega Diøfulleñ fer ad forblinda Mannskiepnuna, þegar hun hyrder ecke um̃ ad hafa almætt- ugann Gud fyrer Augum sier; Hun gengur vijs- vitande æ Diøfulsins Vege, og giører viliande Diøfulsins Verk: Hun fer ad hañs Rædum og fylger hanns Aeggingu, allt eins og einn Þræll kieuur, þa hañs HErra kallar æ hañ, og giører þad sem hañ skipar honum, Matth. 8. Sodd-

ann

ann hrædelegt Blindneñar og Ogudlegleikans Dæme siaaum vid, Scala mijn, a þeim heidna Landsdoomara Pilato: Hann visse vel, ad Gydingar hofdu af Hatre ofurselldt DRottenn i hañs Hendur; Hañ hafde optlega berlega yfirlijst JEsu Sakleyse; Og þo blindade Andskoteñ so herfelega hañs Augu, ad hañ liet Keisarans Reide hræda sig, og Foolksins Ede locka sig til ad dæma JEsum til Dauda, hvert a moote siñe Samvitsku; Ostande være, ad Yfirvolldenn villde Guds Dijrdar, Landsins og sinnar eigenn Velferdar vegna, taka sier trwann Vara fyrer soddann Synd og Svijvirding. Gud betre naadarsamlega vorar Tijder! hvad margur mun nu sa i Heimenum, sem lastar og fordæmer þessa Pilati Adferd, enn geingur þo i somu Glæpa Spor, og fylger sama Ranglætesins Ferle? Ottenn fyrer Mañaña Makt og Vallde situr opt (æ þvi midur!) i Doomara Sætenu, og leggur Urskurd a Maal Mañá, Hofdingiunum til Vilia og Þocknunar, vondum Skalkum til Forsvars og Friiunar, enn Aumingianum, sem ecke fær Riett sinn, til Skada og Nidrunar. Abata Von og Vinattu Filge setur jafnvel Digdanna Nafn uppa Skañer og Leste; Og kannskie þeir finnest, sem sijna Fordilld sijna, i þvi ad veria so raangt Maal, sem riett være, til ad taka i Forsvar eiñ glæpafullañ Barabbam; Og eg ætla Menn meigo allt of opt sia þad og sanna, hversu Gull-Tunganu og hin

Baby-

Babyloniska Kaapa giora mikid ad verkum i þvi ad blinda einn cagiarnañ Achan til ad giora þvert a moote Guds Bode og sinne eigenn Samvitsku sier til Olucku og Fordæmingar, Doom. B. 7. Verda maa og so, ad sumum fare vert eñ Pilato i þvi, ad þeir þigge Mutur og Giafer til ad beigia Veg Riettarens, hvad ad er hin argasta Svijvirding, bæde fyrer Gude og Monnum. Soddañ Logleysa er hin skadlegasta Drepsoott i einu Lande, og eiñ Hyrningar Steinn i Andskotans Samkundu, Opb. B. 3. Eda, maa eg spyria: Hvad velldur þvi ad Illgrese adskilianlegra Lasta og Odigda vex nu so odum i Akre þeirrar sijnelegu Guds Christne vor a medal? Matth. 13. Ad vijsu velldur þvi einna mest Umsioonarleyse þeirra yfer Bodnu, þeir ed meta sitt eiged Gagn meir enn Velferd sinna undergiefenna; vilia kioosa sier Hroos af hvers Manns Munne, med þvi ad þyrma Skalkenum under Medaumkunar Yfirskyne, laatande Hofdingianna Mikelmensku hallda Logunum so hræddum, ad þau hlaupa so sem i Felur, þegar þau eiga ad heimta hinn Ogudlega under Straffed. Gud vardveite vor Yfervolld fraa soddann vondum Dæmum, og giefe þeim Raad til, ad vanda so sitt Embætte i Otta DRottens, ad hanns verde Dijrdenn, enn bæde yferbodenna og undergiefenna tijmanleg andleg og eilijf Velferdenn!

I annañ maata merk þu hier, mijn Saal, heim-

kulega Blindne hiñs heidna Pilati, ad hann hugde med sijnum Handa Þvotte ad fegra og afplaana sitt Raanglæte fyrer Gude og Mønum. Varastu, i DRottenś Nafne, þesse Vijte, O Madur! giær þeß, ad þvott þu kuñer med þiñe faanijtte Hræsne ad fegra Synd þijna fyrer Mañanna Doome, þaa er þier þo omøgulegt ad dyliast fyrer DRottenś Augum, sem eru þusundsiñum skiærare enn Sooleñ, og sia allt hvad Menn giøra, Syr. 23. Vilier þu þvo þig, so ad þier meige fyrer DRottenns Naadar Auglite duga, þaa þvo og hreinsa hvad best og naakvæmast Hiarta þitt og Hugskot, og þad med heitum Ydrunar Taarnm, og gudrækelegre Lifnadarens Betran, leitande þier Helgunar og Hreinsunar i HErranns JEsu blessada Bloods Krapte, sem er frij-openn Bruñur til ad afmaa og forlijka Saurugleik þiña Synda, Sach. 13. Varastu skinhelgañ Hræsnes Þvott hiñs heidna Pilati, eñ idkadu sem optast gudrækelegañ Umvendunar Þvott þeß ydrande Davids; Andvarpadu med Taarum aan Aflaats til hiñs gooda Guds: Þvo þu mig vel af Illgiørd miñe, og hreinsadu mig af mijnum Syndum, Ps. 51. Kosta Kapps um i JEsu Krapte ad bæta þinn Lifnad og betra þitt Framferde, Jer. 7. Þad er sa Gude þægaste, og þier hollaste Hreinsunar Þvottur.

Hinn blinde Gydinganna Lijdur hroopade: Brædé sinne Guds Sonar Bloods-Hefnd bæde

yfir sig og Børn sijn, sem sydañ hefur hrined og mun hrijna a þeim til ognarlegs Straffs og Hegningar. Setie þvi sierhver, sem sijna Velferd kiæra hefur, Jñsigle gudrækelegrar Vareygdar og Forsiaalhe a Varer sijnar, Syr. 22. Einkum og allra hellst þaa hann er reidur, so hañ hverke skade sijna eigen Saalu, nie ofte ødrum nockra Ofara, þvi þess hafa Dæmenn giefest, ad af vondum Obænum hefur beiskur Olucknñar Avøxtur sprotted. Þvi eru þad agiæt Heilrædi, er aller ætttu vandlega ad geyma, ad Menn vare sijna Tungu fraa illu, Psalm. 37. Eñ venie hgna Skaparanum til Dijrdar, enn sier og sijnum til bestu Blessunar. Nota.

O! HErra JEsu, sem mier til Myskunar villder ræanglaatann Dooms Urskurd lijda; Þu sem snarlega munt aptur koma Riettlætes Dooms Urskurd yfir allre Jordunñe ad uppsegia, stiorna þu Doomurunum til ad fara vel og varlega ad sijnum Doomum, so þijn verde Dijrdeñ eñ þiña Barna æskeleg Velferdenn. O Drottenn miñ, afleis oss med Jsopo, so vier hreinsunst, þvo þu oss, so vier fyrer Trwna hreiner og vid þig forlijkter, Snioo-hvijter verdum, Psalm. 51. Þitt dijrmæta Blood, þu osleckada Guds Lamb, sem utflóode a Krossenum, hrijne a oss og vorum, Ja, øllum þijnum Børnum, til Frelses og Fridþægingar, til Synda Bøota, og sañtar Blessun-

ar, Amen.

# 29. Piislar Pꜳnke.

Um̃ Barabbas Frelse.

NN Pilatus þeinkte Foolkenu Fullnægiu ad giøra, og dæmde ad skie skyllde þeirra Beidne, gaf þeim Barabbann lausann, þañ er inn var settur fyrer Upphlaup og Mañdrꜳp i Myrkva Stofu, um̃ hvern þeir bꜳdu; Enn JEsum hꜳdstrijktann framselde hañ þeim, epter þeirra Villa, ad hañ krossfestur yrde.

MErkelega Hugleiding mꜳtt þu, Sꜳla mijn, draga hier af þessu Dæme, bæde um̃ Mannsins mikla Eymd, og lijka þꜳ mykillmarriiku Endurlausn, sem skien er fyrer Frelsarans JEsu bitra og blooduga Pijnu, sꜳ ed i Heimenn er komenn, og ꜳ Krossenum kvalenn, til ad giøra alla synduga Menn sꜳluhoolpna, 1. Tim. 1. Barabbas merker, epter lærdra Manna Utleggingu, Fødurs Nidia; Vid hann mꜳ med øllum Riette lijkiast hiñ fyrste Madur Adam, og aller vier hañs vesælu Nidiar, sem under Ogn Daudans ꜳttum i eilijfre Prælkan ad vera, Ebr. 2.

Bæde

Bæde giorde Adam hid mesta Uppshlaup, þegar hann, med Nautn þess forbodna Eplis, forsmæade blessad Bodord sijns Skapara, 1. Mos. 2, og lijka vard hann sa meste Manndrapare, þegar hann, med sinne grætlegre Hrosun, leidde tijmanlegann, andlegann og eilijfann Dauda bæde yfer sig, og alla sijna Nidia; Under Guds Reide, Grimd Diofulsins, og Ognarlegre Epter-Bid eilijfra Kvala, atte Adam og allt hans Afkvæme, so sem i dimre Dyblissu fiotrad og fanged, eilijfrar Heliar ad bijda, i þvi Dijkinu, sem rijkur af Ellde og Brenne-Steine, Openb: B. 19. Enn eilijflega lofadur sie lijknarfullur JEsus, sem liet sig saklausann til Dauda dæma! So Adam og vier aller hanns Nidiar mættum Frid og Frelse Lausn og Lijfgiof hlioota. Hinn glæpafulle Mordinge Barabbas er laus giefenn, enn hinn sanheilage Guds Sonur JEsus til Lijflaats urskurdadur; Lijka so sem Syndenn rijkte i Adams Falle til Dauda og Fordæmingar, so skal Nadenn mikln fram ar rijkia fyrer JEsu Pijnu, til Riettlætis, Helgunar og eilijfrar Endurlausnar, 1. Cor. 1. Nu fyrst eg er einn af Adams Nidium, þa ma eg maklega heimfæra uppa mig þetta Dæme, bæde til audmiukrar Endurminningar mijns grætlegra Glæpanna Athæfis, og lijka til gledilegrar Ihugunar mijns JEsu Millde og Myskunar Hiaapprædis. O! hvad opt hef eg aumur Þræll giort þrioodskufulla Uppreist moote mijnum himneskum

Gude og HErra, og hanns heilaga Anda Raad-ar Verkunum, briootande daglega hanns blessud Bodord, og vanrækiande mijna Christindooms Skylldu bæde v.d Gud og Naungañ; Gud hefur mig i Millde og Mykun uppaled, enn eg hefe med Priootsku og Þverwd fraa hönum falled, Es. 1. Ecke er eg helldur frij fyrer illu Manndrape, þar eg hefe minne Saalu med vijsvitande Synda Idiu ordsakad Verdlaun andlegs og eilijfs Dauda, Rom.6. Og þar ad auke, med mörgu vonddu Framferde hneixlad minn Naunga, og leidt hann i daudlegann Saalar Haaska. Ofrægur em eg ordinn bæde fyrer Gude og Mönnum vegna Afbrota minna, sem eru uppgeingin yfer mitt Höfud, og ordenn mier ein ofurþwong Byrde, Ps. 38. Eg geing i dimmum Dal og Daudans Skugga, svo sem i Myrkva Stofu inneluktur, hvar Lögmaaled hræder og skielfer mig, Daudenn ognar og ofbijdur mier, Syndernar særa Saalina mijna; Moostlæted og Mædann vill margvijsleg tilfalla.

O! blessadur vertu miñ blijdaste Lausnare JEsu, sem i Heimenn ert komenn til ad afreka saungudum Frelsed, til ad boda harmþrwngnum Huggunena, og wtbega ollu topudu Mañkyne eilijfa Endurlausn og Saaluhiaalp. Þu lietst þig saklausann til Dauda dæma, og lætur mier nu sekum i þijnu heilaga Nafne Naad og Fyrer-

giefn-

giefning boda, Luc. 24. Þu hroopar siälfur Kvittun- og Frid i Himninum, þu lætur þijna Umbods Menn og Þienara med heilagre Aflausn og hauleitum Naadarinnar Medölum leysa mijn Synda Bond, og lina mijnum Eymda Fiotrum; Allt þad sem Dauda verdugt kannst hiaa mier, var til Dauda dæmt aa þier, O Drottenn minn; Þvi skal eg alldrei ördæntä mier þinnar Naadar, alldrei kvijda þijnum Doome: Mijn Saal gledur sig i þier, og er nærsta gladvær i þijnu Hiälpræde, Psalm. 35. Þu hefur leyst mig wr Daudans Fängelse, þu munt lofa mier ad lifa, og lijka ad deya i þijnum Naadar Fadme. Opt villa mijnar Eymda Stunder bæde läängar og strängar verda, eñ þad er mijn Hugsvölun og Harma-Bot, ad sw himneska Paaska Hätijd þiñar dijrdarfullu Tilkomu mune um sijdir yfir mig uppreña, aa hverri eg mun fyrir þijna Naad, minn JEsu, leysast wr Myrkva Stofu miña Synda og Sorga, enn leidast til þess himneska Samkvæmis heilagra Engla og allra Utvalldra, hvar þu, O Drottenn, munt vera mitt eilijflegt Lioos, og aller Dagar miñar Hörmungar skulu i þinne Dijrd og Sælu fullkomenn Enda taka, Es. 60. So mäa nu Barabbas, Adam og eg hanns Nidie, hiartanlega voru Frelse fagna; Lof sege þvi Drottne oll hanns Verk i ollum Attum hanns Herradæmis; Lof seig þu Ond mijn O Drottne, Ps. 103. Amen, Haleluja.

# 39. Pijslar Pavnkt.

Um Christi Krossburd.

Þa tooku þeir JEsum, epter þad þeir høfdu spottad han, færdu han ur Purpura Kapunne og færdu han i sijn eigen Klæde, og leiddu hann wt, ad þeir krossfestu han, og han bar sin Kross og gieck wt. En i þvi þeir geingu og leiddu han wt, fundu þeir ein Man sem fram hia gieck, af Cyrene, Simonem ad Nafne, hver ed komen var af Akre, Fodur þeirra Alexandri og Ruffi, han hendludu þeir og þreyngdu honum, ad han bære hans Kross, og løgdu Krossen uppa hann, ad hann bære hann epter JEsu.

Hla giordu ad vijsu þeir blindu og hreckvijsu Þrælar, sem þad saklausa Guds Lamb JEsum so hriggilega kvolldu, og herfilega utleickir, sem Historian umgietur; Enn eingu minne er þeirra Synd og Svijvirding, eingvu bærilegre mun verda þeirra Hefnd og Fordæming, sem liggia i Syndunum an nockurs Guds Otta, og leika sier ydrunarlaust ad ymsum Løstum og Odigdum þvert a moote sinne Samvitsku, þvi þeir kross-

festa

festa sialfum sier Guds Son ad niju, og hann fyrer Skimp hallda, so sem heilagur Paulus ad Orde kvedur, Ebr. 6. Vijktu fra, Saala mijn, vijktu fra illum Selskap Ogudlegra Manna, varastu þeirra illskufullu Breitne, so þu verder ecke hluttakande i þeirra Obærilegum Plaagum, Opinb. B. 18.

Þad er merkilegt, ad Simon, aasamt bædum sijnum Sonum, verdur i Historiunne a Nafn nefndur, og hanns Minning er fræg ordin medal Guds Barna, af þvi hann giorde (þoott i fyrstu naudugur være) þad Mysktunar Verk a JEsu, ad hann bar med honum þann þronga Kross: Þanninn blijfur Minning Riettlaatra i Blessan, bædi hia Gudi og Monnum, Ordsk. B. 10. Saa sem af Kiærleiksfullu Hiarta sijner naudstoddum Mysktun og Medaumkan, hann fær bæde fyrer sig og sijna ad uppskiera DRottins naadarrijka Hialp, og fodurlega Blessan: Ja, Gud mun frelsa hann a þeirre vondu Tijd, Psalm. 41.

Þad hefur ecki skied af nockre Ovissre Hendingu, helldur alvijsre DRottins Raadstofun, ad ytlendur Madur vard a Vege fyrer Frelsaranum, og bar med honum þa þrongu Krossins Byrde, Hvar med hid eilijfa Guds Raad hefur viliad giefa ad merkia, þad blessadur Naadar Avoxtur bloodugra JEsu Krossins Kvala skyllde vel heyra ecki einasta Gydingum, helldur og einninn

Heidingium, sem voru framande og ſtarkæger Iſraels Borgar Riette, Eph. 2. Og, ad epter Guds ſtranga Riettlæte ſkyllde Guds Ryke, vegna Gydingaña Þriootſku, fra þeim takaſt, og af gruñlauſre DRottins Naad Heidingium giefaſt, Matth. 21.

O! minn livſaſte Lauſnare, þu lijknarfulla Guds Lamb! þier er kunnugaſt hverſu mijn Hiartans og Sealar Saar optlega yfaſt og ſaarlega ſvijda ſokum þiñar Reide yfer mijnum Syndum. Æ, minn JEſu, þu ſem leidſt illum Þrælum ad yfa og uppriſa þijnar blooduga Beniar med Kvala-ſcarre Tilſinningu: Virdſtu bleſſadur heſt ad mijkia og græda mijnar morgu og ſtooru Synda og Sorga Under med þinne naadarfullu Huggun, Fyrerboon og Forþienuſtu: Laat mig, ſaa ad heyra Fognud og Glede, ſo ad þau Beinenn gladvær verde, ſem þu hefur ſundur mared, Pſalm. 51. Þeſſa þungu Kroſsins Byrdi lietſt þu, DRottenn minn, leggia a þijnar bleſſudu Herdar, ſo þu fagurlega uppfillter þaa Fyrirmyndan, er Iſaach bar ſialfur Fornar-Videnn til hanns aaſetta Offurs Stadar, 1. Moſ. V. 22. Og þañveg hefur þu, O HErra, med þinni Armædufullu Kroſs og Kvala Gaungu, frelſad mijna Saal fra eilijfum Kvala Hrakninge, og opnad henni beina Bleſſunar Braut giegnum allar Eymder inn til eilijfrar Sælu og Hvijldar. Mijn vegna hefur þu nærſta þreyttur orded undir

þinne

þinne þungu Kross-Byrde: Sijn þu mier O Drotten minn Vægd og Hiælp, þegar eg tek til ad mædast under þins Kross- og miña Synda-Oke. Mitt spillta Hold er æred tregt, og minn Vilie nærsta veikur til ad feta þiñ Kross-Feril, so sem mier bære, og eg fegeñ villde; Æ kom þu mier veikum til Hiælpar med þijnum Naadar Krafte; Þu fieckst eiñ Hiælpar Mañ til ad lietta under þijna Byrde, O JEsu! lat mig alldrei Lijknarlausann þreya i minne Mædu og Mootlæte, vert þu ecke fiærre mier þegar Angistenn er nalæg; Þu sem ert minn Styrkur, skunda þu mier til Hiælpar, Psalm. 22.

Ad sijdurstu, tak þier hier ut af gudrækelega Aminning, mijn Sæl, ad þegar goodum Gude þocknast ad leggia sin Kross þier a Herdar, enn Holld og Blood vill med Mögle og Oþoleñmæde bakspirna a moote þessum Broddunum, Post. G. 9. Laat þa sem þu sioer sialfann JEsum ganga undañ þier med sinn Kross, sem hañ bar þier til Myskunar, og giæt under eins Skylldu þinnar, ad bera þinn Kross a epter, honum til Hlijdnes og Þocknunar; Gack so med Þolenmæde vti þijna Synda Orrustu, og haf alldrei þijn Sæalar Augu af honum, sem er Uppbyriare og Fullkomnare þinnar Trwar, Ebr. 12. Varastu med vondum Glæpum nockurn Næningia Kross ad leggia þier a Herdar; Tak trwann Vara a

þijnu eigeñ Embætte; Leitadu þier hlaa lijknarfullz um Gude med audmiwkre Bæn, ævarande Far-sælldar, med alvarlegre Ydran foodurlegrar Frid-þægingar, so þu meger bera þinn Kross, so sem þess krossfesta JEsu sannur Lærisveinn, og þurf-er ecke ad skamast þijn, helldur meger med glodu Giede vegsama Gud i slijku Tilfelle, 2. Pet. 4. O minn Hiarta goode Lausnare JEsu! minnstu mijn epter Myskunseme þinne, og virdstu med þin-ne lijfkroptugre Lijkn og Lidsemd under mijna Mædu Byrde ad lietta, og mijna Daudans Kvol bærelega ad giora: Laat bæde mig og mijna, samt alla þijna, vera geymda i þijnum foodurlegu Forsioonar og teiknada i þijnum fogru Astar og Naadar Hondum, Amen, O JESU, Amen.

## 31. Pijslar Þanke.

Predikun Christi fyrer Kvinnunum.



NN hønum fylgdi eptir mik-ill Fioll de Foolks og Kvenna, hveriar ed grietu og hørmudu hañ. Eñ JEsus snerest til þe-irra og sagde: Þier Dætur af Jerusalem: Grated ecke yfir mier, held-ur greated yfir ydur sialfum og Børn-um ydar. Þvi sia ed! þeir Dagar munu koma, a hverium þeir segia: Sælar

eru

eru Dlmrium, og þeir Kvider er ei hafa fædt, og þan Briooſt, hver eige voru ſtiulkt. Þa munu þeir taka til ad ſegia Fiollunum: Hrinied yfir oſs; Og Haalſunum: Hilied oſs !

MArla verdur offoaum af þvi ſagt, hverſu vollt og ſvipul ad er Veralldar Mannanna Virding og Vinatta, allt eins og veikur og ſundurbrot eñ Reyr-Vondur, ſem ſviikur og ſærer þañ, ſem ſig vill vid hañ ſtydia, Eſ. 36. Þad meigum vid, Saala miin, ſiaa af Dæme JEſu Aſtvina og Lærſveina: Þeir hofdu ſkomu adur fagnad hanns Tilkomu med fogrum Glede-Saung og æſkelegre Hiartans Kiæte, þegar hañ a Paalma Suñudag innreid ſo ſem einn Konungur til Borgareñar Jeruſalem, Matth. 21. Eñ faam Dogum ſiidar, hlutu þeir ad rekia hanns Kroſs-Ferel med graatande Taarum og beiſku Hiartans Angre, þegar þeirra Meiſtare og Herra, var ſo ſem argaſte Illrædes Madur, alſærdur og alblooduqur, under þeirre ſinqanarlegu Kroſſens Byrde, utleiddur af Jeruſalems Borgar Hlide. Hafi nu Verolldeñ med ſiñe Bliidu vered ſo vollt og ſkaarad vid ſiñ Gud og HErra, ætla þu þa ecke til þeſs, Saala miin, ad hun vande þier betre Kvediurnar, fatækdum Præle og veſælum Syndara: Þeim ſem hun biidur hvad meſta Gledeñar Bliidu, er, þegar nidurſt Vonum varer, hætt vid hinne meſtu Mootlætis

lætis Åstrijdu. Varast þvi ad festa Hiartad vid
scanijtt Heimsins Glis og fallvallta Vincattu,
gott er ad treysta uppa DRottenn, og forlæta
sig ecke a Menniña, Ps. 118. Halldt þier fast vid
DRottenn, þvi hañ er orugg Verndar Hüjs, og
Oyfirvinnanlegur Hialpar Skiolldur all-
ra þeirra sem a hann vona, Psalm 115.

Grætid ecke yfir mier, sagde giædskurijkur
Jesus til Kveñaña; Ad vijsu þecke eg mijna stærstu
Skylldu, ad wthella beyskum Harma Tarum
vegna þinna bitru Pijsla DRottenn minn! Eun
veit þo ad þvilijkur minn Harmur kann hverke til
þiñar Dijrdar nie til miñar Velferdar ad þiena:
Þvi hvad skal eg græta yfir þijnum Pijslum, sem
eru mitt og allra syndugra Manna fegursta Glede
Efne, og ecker vitum vier oss annad til æskelegra
Sælar Heilla og Huggunar, 1. Cor. 2. Hvad
skal mier ad harma þijnar Kvaler, sem mier til
himneskrar Huggunar eru nu uppsvelgar i eilijfañ
Dijrdar Sigur, þar þu, DRottenn minn, ert
fra Angisteñe burtnumenn, Es. 53. og inngeing-
enn i þijna guddoomlega Dijrd. Hitt ætte og
mætte vera mitt hellsta Angurs Efne, ad eg hefi
auked þier so strangt Kvalaña Erfide med mijn-
um Syndum, og giort þier so þvinga Mædu med
mijnum Misgiordum, Es. 43. Eg hrædest og
skielfist fyrer þvi, DRotteñ minn! ad yfir mier
nume vofa, og vera af þijnu stranga Riettlæte a-
lyktud Obæreleg Hefnd og Reide, þar eg hef so
leinge

leinge ydkad Obætt Glæpaña Athæfi; Enn þad er aptur ꝏ moot mijn eilijf Huggun og Harma-Boot, ad med þeirre grꝏtlegu Kvol, sem þu, miñ JEsu, þolder, hefur þu wtvegad mier hrotleguṁ Vesæling, gledelegañ Frid og fullkomna Kvittun allra minna Synda; Minne Sorgar Klogun hefur þu snwed i Glede Dans: Þu hefur miñ Hrig dar-Seck i sundursliteð, og umgyrdt mig med Nꝏd, Huggun og Hiꝏlpræde. O Drotteñ Gud minn: Ad eilijfu vil eg þier Þacker giora, Ps. 30. O minn blijdaste Lausnare: sem ert miña Synda fullkomenn Boot og Forlijkun, 1. Joh. 2. Eg grꝏtbæne þig, væg og myskuña mier vesælum Syndara: Lꝏt eingann uppskiera Skadsemdareñar Giolld af illre Root minna Glæpa: Þijn Fodurleg Nꝏd og Blessan fylge mier og mijnum alla vora Lijfdaga, og leide oss ad sijdurstu i Nꝏd og Fride inn i himneska Dijrd og Sælu, Amen.

# 32. Pijslar Pꝏnke.

## Um Grꝏna og Visnada Tred.

EF þeir giora þetta vid bloomgada Tried, hvad mun þa skie vid hid þurra?

FAgra Lærdooma og lijfkroptugar Huggunar Greiner meigum vid, Sꝏla mijn, fiña i þessum epterteektaverdu Lausnarans Ordum: Lꝏtum oss þꝏ ecki gleyma, helldr athugum og vardveitum

þau med Gudrækne i goodu, og sidsomu Hiarta, ockur til christelegrar Uppvakningar og æskelegra Blessunar Nota. Þad græna Tried er sialfur Guds Eingieten Sonur, og einaste Heimsins Lausnare JEsus, hver ed i sine dásamlegre Holldgan upprañ einn Vondur af Kyne Jesse, og einn Kvistur af hañs Root, Es. 11. fagurbloomgadur af Blessan, Naad og Sannleika, Joh. 1. Þesse himneska Lijffins Eyk wtbreidde a sijnum sijnlegrar Hiervistar-Dogum sætt-ilmande Lyknar Lauf-Blød sin̄a guddoomlegu Krapta-Verka, øllum þeim, er þyggia villdu og kuñu, til mysku nar-rijkra Meina-Boota; Hañ gieck um̄ kring, giørde gott og grædde alla þa, sem af Dioflenum voru underþryckter, Post. G. B. 10. Hañ giørde allt vel, Marc. 7. eñ eckert illa; Af hverium Kvister þessarar himnesku Lijfs-Eykar draup Hunang Sæluhiálplegra Kieñinga og ástwdlegrar Umgeingne; Eingañ harmþrwngeñ Vesæling villde hañ lijknarlausañ fra sier reka, Joh. 6. Alla sann-ydrande Vesælinga og Syndara giørde hañ i sitt Naadar-Skiool og Forsvar ad taka, Luc. 15. Þetta blessada græna Tried bloomgadest ad Alldre, Vitsku og Naad bæde fyrer Gude og Moñum, Luc. 2. Hiinen og Jord gloddust yfer þvi i JEsu Fædingu; Sua himneske Faderen auglijste sijna hiartanlega Velþocknan a þvi i JEsu Skijrn, Matth. 3. Hiér maatte hvervetna lijta ylmande og bloomlega Blessunar Avexte, Avexte Riettlætes,

Helg-

Helgunar og eilijfrar Endurlausnar, 1. Cor. 1. Ad vepte sonarlegrar Hlijdne og hoogværustu Polinmæde allt til Kroßens Dauda, Phil. 2. Avepte syllkomens Heilagleika, og heilags Fullkomleika, sem var og er ollum Guds Vesælingum Ordsok til eilijfrar Sæluhiælpar, Ebr. 5.

En þad mæ maklega þykia himinn stærstu Undrum sæta, ad þetta Edla Tried, so fagurt og bloomlegt sem þad var, mætte þo ecke vera ængurlaust æ Jorduñe; Guds Reide-Stormur geysade yfer þad: Daudans og Kvalaña Ofbod hriste þad, og Bellals Læker dundu þar yfer æ allar Sijdur: Ef þu villt adspyria, mijn Saal, hvad þvi ollad hafe, ad sæ himneske Fadereñ liet siñ Hiartans Son saklausañ lijda so hersfelegar Pijster? Þar skalltu vita, ad allt Holld a Jorduñe hafde fordiarsad sijna Vegu; Þad var orded visnad Trie og uppþornud Eyk, sem eingañ goodañ Avøxt færde, helldur sûr Vijn-Ber Synda og Rænglætinga, Es. 5. Allur Heimureñ var falleñ fyrer Gude, eingeñ var sæ er gott giorde, og ecke einn, Rom. 3. og ætte þvi þetta rotna og Avaxtarlausa Trie, epter Guds stræanga Riettlæte, ad upphoggvast og i eilijfañ Kvala Elld ad kastast, Matth. 3. Þetta aumkade hin Ometañlega DRottens Naad, og so hiñ visnada Eyk, sem var vesællt Mañkyn, mætti eñ þa standa Oupprætt under gudlegre Giædsku og Poleñmæde, þa er Guds Sonur Jesus i Holldenu auglijstur, og æ þvi sama kvaleñ og kroßfest-

ur, wthellande so sijnu allrahelgasta Bloode, þeirre. visnudu Eyk til blessadrar Bloomgunar og eilijfrar Endurlausnar; Hañ liet sig saklausañ pijna, so þad seka Mañkyn mætte Frid og Mykun hliota; Þad græna Trieð hrákteſt og hristeſt i straungum Storme Kvala og Hormunga, so hin visnada Eyk mætte bloomgast og friofgast i himneſku Hlij-vidre blijdrar Guds Nꜳdar og Hugguuar.

So stoort Krossens og Eymdaña Kvalræde hlaut Christur JEsus ad lijda Heimenum til Mykunar ꜳdur hañ inngeinge i sijna Dijrd. Giæt nu ad Hꜹgum þijnum, i Guds Nafne, mijn Sal: Ef þeir giora þetta vid bloomgada Trieð, hvad mun þa skie vid þad þurra? Hafe Stormur Reideñar geisad yfer þad græna Trieð, æ! hversu heitt mun þa Elldur Kvalaña brena yfer þvi visnada? Hafe Födursins Reide orded so þung hañs hiartkiærum Syne, hversu Obærileg mun hun þa verda illum Þræle? O! vakna þu, Saal mijn, af þijnum Synda og Hyrduleysses Svefne; Vert ecke uggalaus, þo þijnar Illgiorder sieu eñ þa ecke straffadar, so þu þar fyrer framar meir vilier andvaralaust Synder drijgia, þvi Gud kañ so snarlega ad verda reidur, sem hañ er nꜳdugur, og hañs Reide yfer Ogudlegum lætur alldrei af, Syr. 5. Drag þvi ecke undañ, ad snꜹa þier til DRottens; Hafe Guds Opreitt Þolenmæde og Laanglundar Gied hijngad til sparad þig Oheguda vegna Synda þiña, þꜳ sia vel til, ad þu med audmiwkre

wkre Losgiörd, Aſt og Hlijðne, hallder Bidlund Drottens fyrer þijna Saluhialp, 2. Pet. 3. og færer þier hana i Nyt til æſkelegra Bleſſunar Nota. Eg er ad viiſu viſnud og vökvalaus Eyk, alþaken med Sorg, Synd og Raanglæte; O! þu græna Lijfſins Trie, min goode JEſu, geym þu mig under fögrum Lauf-Blødum þinar Vægdar og Myſkunſeme! Þad er vonlegt, ad eg argur Þræll meige mörg Reſſingar og Mootlætes Hogg lijda, og ecke mune eg faa annars, en i giegnum margar Hrellingar inn ad ganga i Guds Dijrdar-Rijke, Poſt. G. B. 14. Æ! loſadu mier Syndaþiaadum Sorgmæddum Veſælinge, Lauſnarenn goode! ad drepa mijnum veika Trwar-Staf a fliootande Hunang þinar guddoomlegu Naadar og Huggunar, ſem mijnum dopru Saalar Augum upplijwke, mijna þreyttu Saalar-Krapta hreſſe, langtum betur en Jonathæ jookſt fordum lijkamleg Orka af þvi jardneſka Hunange, 1. Sam. 14. Þegar velforþientar Þrauter og Hörmungar mæda mitt Hiarta, dreyp þa a Saalu mijna, O Drotten min, med himneſkum Sætleiks Vökva þinar Myſkunar; Lijt i Medaumkan a mijna Eymd, og forlaat mier naadarſamlega allar mijnar Synder, i JEſu Nafne, Amen.

## 33. Piiſlar Þanke.

### Um Chriſti Kroſsfeſting.

Og

OG þeir leiddu hañ wt i þann Stad, sem kallast a Ebresku Golgatha, hvad ed þijdest Hofudskelia-Stadur. Og þeir gafu hönum ad drecka i Vijne Myrru og Edik Galle blandad, og hann took þad eige til sijn, þvi þa hañ smackade þad, villde hañ ecke drecka. Og sem þeir komu i þañ Stad, sem kalladest Hofudskielia-Stadur, þar kroßfestu þeir hañ, og med hönum Tvo adra Ræningia, Eiñ til hægre Handar, og Añan til þeirrar vinstre, eñ JEsum i Mided; Þa vard sw Ritning uppfylld, sem seger: Med Illvirkium er hañ reiknadur.

ADdaañleg hefur vered og er Ast og Elska þijns blessada Endurlausnara JEsu, mijn Saal, ad hañ leid hinum orgu Þrælum, ad bera hañ bitra og banvæna Dryck ad sijnum ørmædda og þyrsta Muñe i Kvoleñe, og þad til þess, ad þu mætter i øllum þijnum Angistar og Mædu Þorsta, saa ad uppausa ylmsætt Svølunar Vijn af lifande Uppsprettu hañs lyknarfullu Huggunar hier i Neydeñe, og drecka siidañ med øllum Utvølldum, af himneskum Vatns-Straumum eilijfrar Sælu, i Dijrdeñe, Openb. B. 7. Þacka þu og þigg, mijn

Saal

Sääl, þessa Ometanlegu JEsu Millde med auds-
miuku Ástar Packlæte, og glæt aptur á moot þiñ-
ar Skylldu med alvarlegre Gudrækne, ad þar sem
þiñ Sääluhiäalpare hefur smackad beyskañ Dryck
hier til sættrar Svolunar, þaa fyll alldrei framar
þeirra Flock, sem bioo da honum enn nu i Dag
beiska Illskuñar Adryckiu til Stigdar og Mood-
gunar; Eñ þad giora aller þeir, sem gabba sinn
Gud og DRotteñ med trwarlausre Ydran, elsku-
lausum Præls-Otta og eintoomis Hræsne.; aller
þeir, sem avarpa siñ Náunga, sem er JEsu ands-
legur Limur, med svikafullu Underferle, False og
Flaarædе; Soddaun beysku Bolsunar Vijni vill
blessadur Jesus i Reidi fraa sier hrinda, og þo þad
þyke morgum fagurt aa ad lijta, þaa stijngur þad
sem Nadra og bijtur sem Hoggormur alla þaa, sem
ydrunarlaust med þad hondla, Ordsk. V. 23.
Þad er mier skylldt til Æru og Packa ad taka,
DRotteñ miñ JEsu! Þegar þier þocknast ad dr-
ecka mier til af þijnum Kross-Bikar, þott beysk-
ur vera kunne; Hiartans giarnañ skal eg þañ heil-
susamlega Kaleik af þiñe Mijskunar Hende þoliñ-
moodlega þyggia; og þitt Naadar Nafn þacklaat-
lega vegsama, Ps. 116. Þu varst med ramre Be-
iskiu i þijnum saara Þijnu-Þorsta dryckiadur; aa!
gief ad eg Syndum-þiaadur og þreittur Vesæl-
ingur i allre miñe Mædu faae ad niota Svolunar
og Säälar Hressiñgar, af þijnum sætasta Naadar
Brunne, sa ed fliote mijnu Hiarta med ylman-

de Endurnæringu allt til þess eilijfa Lijfsins, Joh. 4. Lꜳt þann Galle-blandada Bikar beyskrar Heiptar og Lastyrda vera lꜳngt frꜳ mier; Virdstu alla mijna Synda og Sorga Reiñu ad bæta og lina med Sætleik þiñar Nꜳdar og Huggunar, so eg i Lijfe og Dauda mege sioꜳ og smacka, hversu sætur og liwfur þu DRottenn ert, Ps. 34.

Pad var hormulegt Olucku Tilfelle, þegar Adam, epter þad hann hafde broted ꜳ moote Bodorde DRottins, stood alsnakenn vid Skilninges Tried i Eden Aldingarde, med harmande Hiarta, nidurlwtu Andlite og nagande Samvitsku, 1. Mos. B. 3. Og med þvi hañ hafde illa giort, vogade hañ ecki i Augsioon ad koma, helldur falde sig medal Triꜳnna; Þess ꜳttu aller hañs Nidiar ad giallda, til aumkunarlegs Dauda-Straffs og eilijfrar Fordæmingar, Rom. 5. Pad var aptur ꜳ moot hid ædsta Glede og Nꜳdar Teikn og Tilefne, þegar Sonur Guds og Sꜳluhiꜳlpare allra Manna JEsus Christur hieck albloodugur, alsnakeñ og alsærdur ꜳ Krossinum ꜳ Golgatha Fialle, bæde hid ytra og iñra fullur af sarre Kvøl, Angist og Krꜳnkleika, Es. 53. og med þvi hann hafde allt vel giort, og var þꜳ ꜳ ollum hid besta og mesta Myskunar-Verk ad giora, villde hann blessadur fyrer eingvum felast, helldur opiñberlega pijnast; Þess meiga aller Adams Nidiar niota til æskileguslu Synda-Boota og Sꜳluhiꜳlpar; Lijka so sem aller doou i Adams fordæmañlegu

Falle,

Falli, so verda aller lijfgader fyrer JEsu blessada Pijnu, 1. Cor. 15. O miñ elskulegaste Endurlausnare, Eg vesæll Syndare mæne mijnum Hiartans Augum a þijnar helgustu Hendur, sem vegna miña Mysgiörda og mier til Miskunar, voru a Krosseñ wtþandar, og med hvossum Jarn Godd um giegnum stwngnar; Mijnar Hendur eru full- ar af Bloode Rangslætis og Bölfunar, Es. 1. Af þiña Handa Sarum hafa Blooddroparner ruñ- ed mier til æskilegrar Fridþægingar og ævarande Farsælldar; Pu lietst, DRotteñ miñ, þijnar Hendur so fast a Krossenn negla, ad eingeñ skyllldi mijna Sorgmædda Saal wr þijnum Myskunar- Hondum slijta, Joh. 10. Mijner saurugu Fæt- ur eru allt uñ Of-fwser og fliooter ad ana fram a vondum Glæpa Vege, sem leider til Glötunar; Pess vegna voru þijner heiløgu Fætur, miñ Her- ra, so saarlega a Krossinum kvalder mier til Lykn- ar og Myskunar; Lofadur siert þu þar fyrer, Lausnare miñ, ad eilijfu, og lat øll mijn Foot-Spor, hvar sem eg er og fer, greidast og stioornast fram a Veg Fridar og Farsælldar hier tijmañlega og sijdar eilijflega, Luc. 1. Allt þitt helgasta Holld var saarlega kvaled mier til Saaluhialplegrar Lækningar; Pess bid eg og Oska af audmiwku Hiarta, ad mitt synduga Holld mætte i þijnum Krapte krossfestast fra vondum Gyrndum og Glæpum hier til Dijrdar, eñ mier til gudrækileg- rar Leidriettingar, Gal. 2. so þad eg life i Holldinu,
 þad

þad life eg i Trw, Elsku og Hlijdne þiñe. Þu hæ-
leitaste Himnaña Drotteñ, sem alldrei framder
nockra Synd edá Saurgañ, 1. Pet. 2. varst teik-
nadur nu Illvirkium, so eg brotleg Skiepna mæt-
te komast i Tolu þiña blessadra Barña, og verda
med þijnum helgande Bloods-Krapte teiknadur.
Nu er eg ordiñ æsamt þeim og þau med mier öll
samañ eitt i þier, miñ elskulegaste JEsu, Gal. 3.
Þad skal vera mitt ædsta Yndi, æ so lenge mijnar
Eymda-Stunder vara, ad hafa þijna bitru Kr-
ossins Pijnu eitt oped Miñingar-Teikn æ jafnañ
fyrer mijnum Hugskots Augum, og andvarpa mit
Hiarta og Muñe i Himiniñ til þijn, segiande:
DRottins JEsu saara Kvøl, sem hañ leid og þol-
de miña vegna a Krossinum, sætti og forlijke mig
synduga Skiepnu vid sialfañ eilijfañ og almætt-
ugañ Gud i Himninum! hun siaæ Vægd og Bo-
ot a mijnum Syndum! hun veite Linun og Liettet
mijnum Syndum! hun giefe mier æskilegs Fridar
og Farsælldar ad niota hier i Heime, og uñi mier
ad siidurstu eilijfa Dijrd og Glede ad hliota i
Himnarijke! J þeirre Von vil eg gladur lifa og
hvad gladastur deya i Nafne og Nædar Krapte
þess Prij-Eina lifanda og lyknarfulla Guds Fød-
urs, Sonar og Anda heilags, hverium ad sie Dij-
rd, Heidur og Æra fra Eilijfd til Eilijfdar, Am.

## 34. Pijslar Þanke.

### Fyrsta Ord Christi a Krossinum.

ENN JEsus sagde: FAder! Fyrergief Þeim, Þvi ad Þeir Vita Eige Hvad Þeir Giora.

Þetta fyrsta Lijfsins Ord Frelsarans Jesu Christi ꜳ Krossenum skulum vid, Sꜳla mijn, gudrækilega athuga og yfervega. 1. Ockr til alvarlegrar Ydrunar Aminningar. Hvad kuñi hiñ riettlꜳtꜳ Gud til Hefndar og Reide yfir ogudlegum Skꜳlkum framar ad hræra, eñ ad horfa ꜳ siñ Eingietinn Hiartans Son, i hverium sꜳ himneske Faderinn hafde alla sijna Velþocknan, Matth. 3. so herfelega wtleikenn af þeirra Volldum? Þar hañ blessadur hieck so sem ein Bolvan midt ꜳ mille Himins og Jardar med sundurflakande Sꜳrum, fossandi Blooddropum og fliootandi Tꜳrum, breidande so sem hlijded Barn siñ blessada Fadm ꜳ moot i Fodursins Auglite. Æ! ecke er þad ad undra, þoott þeir leide yfer sig snoggva Fordæming, sem gꜳnga i Footspor þeirra forherdtu Gydinga, i þvi ad afneita med yfirbootarlausu Glæpañã Aðhæfi Drottni þeim, sem þꜳ hefur so dijru Verde endurkeypt, 2. Pet. 1. sem so bitrar Kvaler hefur lided vegna þeirra Synda, og þeim til Sꜳluhiꜳlpar. Varastu þvi, i Guds Nafne, Sꜳla mijn, med forstockudu og forherdtu Ydrunarleyse, ad leida yfer þig DRottins Hefnd og Reide: Lꜳt Nꜳd Guds, og hañs eingietins Sonar sꜳru Kvaler typta þig til ad afneyta ollu O-

 gud-

vered, Jaa, soddan Ord, um hvert þad maa med ollum Rette segiast fierdeilislega, sem DRottenn JEsus vitnar um oll sijn blessudu Ord almeñelega, ad þau eru Ande, og þau eru Lijf, Joh. 6. Þau eru Kraptur Guds til eilijfrar Saaluhiaalpar ollum þeim, sem þar aa trwa, Rom. 1. So skulum vid nu, Saala mijn, med hiartanlegre Andagt og gudrækelegre Eptertekt yfervega þetta blessada JEsu Ord, og hvad Sonur Guds meint hefur, er hañ sagde: Þad er Fullkomnad.

Þad er vitannlegt, mijn Saal, ad almaattugur Gud wtgaf Fordum aa Fiallenu Sinai sitt haaleita og heilaga Logmaal, 2. Mos. 20. hvert hanns dijrdarfulla Haatign med hinu straangasta Riettlæte alvarlega skipar og bijdur ollum Monnum fullkomlega ad hallda, og fyrer utann nockurn Brest ad uppfylla; Þad wtheimter algiort Riettlæte bæde hid innra i Saaluñe og wtvortis aa Lijkamanum: Þad krefur fullkomens Heilagleika og heilags Fullkomlegleika bæde i Hugrenningum Ordum og Athofnum: Þad bijdur ad Madur skule, fyrer utann nockurn Brest, Yferdrepskap edur Ofullkomlegleika, elska Gud af ollu Hiarta, allre Saal og ollum Mætte, og Naaungañ so sem sialfañ sig, 5. Mos. B. 6. Hver sa sem þetta giære ad fullu og ollu Leite hallded, aatte þar af ad lifa, 3. Mos. 18. Enn ollum þeim, sem i hinu miñsta þar wt af brite, var hootad tijmanlegre, andlegre og eilijfre Bolvan, 5. Mos. B. 27. Nu var þad og er

olld

alldunges Omœgulegt ollu syndugu Hollde, sijdañ Adam braut, þessum heilaga Guds Riettlætes Vilia i hinu allra miñsta ad fullnægia, hvers vegna Synda-Sekt allra Maña vard hin Obærelegasta; Pvi efter Guds Oumbreitanlegum Riettlætes Vilia ætte Logmaaled algiørlega ad uppfyllast, eda, ad ødrum Koste, allt Mañkyned eilijflega ad fortapast. Yfir þessa vora aumkunarlegustu Eymd og Neyd, leit hiñ eilijfe Guds Sonur JEsus sijnum blessudu Myskunar Augum, og Pvi liet hañ sig fæda i þeñañ Heim, og giørdest Logmaalenu underorpeñ, so hañ frelsade alla oss, sem under Logmaalenu vorum, Gal. 4. Þesse JEsus hefur i vorn Stad og vor vegna fullnægt Guds Riettlæte, og gollded alla þa Logmaalsins Skylldu, sm vier ættum ad gialda, med sijnu flecklausa Framferde. Þesse JEsus hefur fridstillt Guds Reide, og bored alla þa Logmaalsins Bolfan, sem vier bera ættum, i siñe særu Pijnu. Nu hafde þad fyrerheitna Kvinnunnar Sæde sundurbroted þess helvitska Hoggorms, Diofulsins, Hofud, 1. Mos. B. 3. og under eins giørst Foorn og Forlijkun fyrer allrar Veralldareñar Synder, 1. Joh. 2. Nu hafde JEsus leyst oss fraa Bolfan Logmaalsins, þar hann vard Bolfan fyrer oss, so vier i honum blessader yrdum, Gal. 3. Nu hafde Gud giørdt sinn Son ad Synd fyrer oss, þar hañ visse þo ecke af Synd so vier yrdum i honum þad Riettlæte, sem fyrer Gude gillder, 2. Cor. 5. Þetta auglijser nu hinn

mikle

mikle Mannañа Elſkare millderijkur JEſus full- komlega framkvæmt og farſællega fullkomnad ve- ra. Gled þig þvi, Saala mijn, hiartanlega i hæ- bleſſudum JEſu Heilſugiafara þijnum, ſem ſo huggunarſamlega hefur a Kroſſenum til þijn tal- ad, ſegiande: Þad er Fullkomnad. Fyrer þig er Logmalſins Hlijdne fullkomlega golldeñ; Fra þier er Logmalſins Bolfan fullkomlega burttek- eñ, þier til Handa er fullkomenn Nad, Synda Kvittun og Saaluhialp afrekud og feingeñ. Aller Gamla Teſtamenteſins Spadoomar, ſem hlijddu uppa þijna eilijfa Endurlauſn, eru nu fullkom- lega framkomner. Øll Guds Nadar Fyrerheit ſkulu þier nu til æfarande og æſkeleguſtu Bleſſun- ar verda fullkomed Ja og Obrygdanlegt Amen, 2.Cor.1. Øllu þeſſu villde Lauſnare þiñ JEſus, mijn Saal, opennberlega yferlijſa i ſiñe bitru Kvol a Kroſſenum hangande, og hartnær komenn ad Dauda, til ad avijſa þar med, ad oll ſijn bleſſud Forþienuſta og Fullnægingiord ſkyllde vera mier lijfkroftug Huggun i ollum mijnum Eymdum, og þad fegurſta Glede-Lioos i mijnu Andlate. Ei- lijflega lofadur ſiert þu, Lauſnare minn, fyrer ſo æſkelega Bleſſan, ſem þu hefur mier afrekad; Lat guddoomlegañ Krapt þijns fegurſta Fullkomleg- leika vera blijda Nadar-Boot og fullkomna Frid þæging fyrer alla mijna Breſte og margfalldann Ofullkomlegleika. Þu hefur allt fullkomnad mier til Endurlauſnar og eilijfrar Saaluhialpar; St- yrk

yrk mig og stioorna mier, O Drottenn minn, ad eg i þijnum Otta fullkomne mitt Hlaup med Fagnade, þijnu blessada Nafne til Lofs og Þocknunar og megi so behallda Trwñe og góodre Samvitsku allt til Æfiloka, 2. Tim. 4. Lææt þetta þitt fagnadarrijkasta Lijffins Ord a þiñe Dauda-Stundu, styrkia mijna veiku Trw, hughreista mitt hrædda Hiarta, og gledia mijna sorgmædda Saalu a mijnum Andlaats Dege; Hroope þa þitt Fullkomna Forþienustu Riettlæte Naad, Kvittun og Fridþæging a moote mijnu fordæmañlegu Synda Rangslæte, so eg fullkomeñ og eilijfañ Dijrdar Fognud megi hia þier hlioota, Amen.

# 44. Pijslar Psalmur.

Siounda Ord Christi a Krossinum.

OG JEsus kallade upp hææte Roddu i Añad Siñ og sagde: Fader! J Pijnar HEndur Fel Eg Miñ ANda.

SEa sem vill saa farsællega ad deya, hañ skal kosta alls Kapps uñ gudrækilega ad lifa; Hver sem lifer i Krapte JEsu Forþienustu riettlaatur fyrer DRottne, hañ deyr eirnenn i JEsu Nafne eilijflega sæll og blessadur i sijnum Gude, Opinb. B. 14. Þetta ætte ad upporfa sierhvern christenn Mann til ad hafa sem optast i Huga og Minni

 blood-

bloodugánn JEsu Krossins Dauda, og sier deilis þau blessudu Ord, er hañ taladi under sitt signada Andlaat, þvi þar inni finnum vier bædi lagdañ hiñ beinasta Veg til ad lifa heilögu Guds Barna Lijfe, og lijka giefid þad besta Medal til ad deya riettlaatra Maña Dauda: Fader, i þijnar Hendur fel eg miñ Anda.

Af þessu Sivunda og sijdarsta Lausnarans Jesu Lijssins Orde a hans Dauda-Stundu, skallt þu, christenn Madur, med sannre Gudrækne siaa, læra og yferveiga. 1. Ad Frelsarenn bæde byriade sijna bitru Kvøl i Grasgardinum, og endade lijka sitt blessada Lijf a Krossinum med þvi ad aavarpa Gud med þvi elskusulla og gledilega Fodur Nafni, Viliande þar med kienna þier, christenn Madur, ad þu i allskonar uppaafallande Mannraunum, og einkum i hiñi sijdurstu Daudans Neyd, laater þad vera þijn hellstu og gledilegustu Urræde, ad upphefia þijn Trwar og Bænar Augu i Himiniñ til þess mikla Myskunsemdaña Fodur og milldasta Guds allrar Huggunar, sem bæde hefur Viliañ og lijka Maatteñ, til ad hugga þig i allre þiñe Hrygd, og biarga þier i øllum þijnum Baagiendum, a hvers Lijknar Naader þu maatt flija med øruggu Trwar Trauste, og nefna hañ þiñ Giædskurijkann Fodur, Þvi JEsus hefur giefed þier Magt Guds Barn ad vera, Joh. 1. JEsus blygdast ecki vid ad kalla sig þiñ Broodur, Ebr. 2. og nefna siñ himneskañ Fodur lijka einn-

inn Þinn Föður, Joh. 20. Þocknest nu Þessum Þijnum hæblessada Hiartans Föður ad leggia Þier Krossinn a Herdar, Þa lat Þad vera Þier eilijfa Huggun, ad ef Þu ber Þañ med ydrande audmiwku og Þolinmoodu Hiarta, Þa framm biijdur Gud sig Þier so sem Barne, Ebr. 12. Þa mattu vera vissastur um Giædskurijkt Guds Faderne og Þiñ gledilegañ Barna-Rett, Ja, lijka sem Faderiñ er Bornunum lyknsamur, eins Þa vill DRottreñ Föðurlega Mysskun og Medaumkan sijna, Föðurlega Hialp og Hugsvolun senda bædi Þier og ollum sijnum naudlijdande Barna-Skiepnum, Psalm. 103.

2. Sijnir Þier Þesse blessada Lausnarans Andlats Bæn, ad Salen er Odaudlegur Ande, sem eingenn kañ Lijfe ad svipta, Þo Lijkameñ hlioote andvana og ad kolldum Na ad verda, Matth. 10. Eckert Rad giorde Lausnareñ fyrer Greftran sijns H. Lijkama, enn siñe blessudu Salu sa hañ besta Farborda. Lær Þad af DRottne Þijnum, O Madur! ad Þu fyrer eingann jardneskañ Mun gleymer eda vanrækter ad bwa so med Þoliñmæde og goodum Verkum i Veg fyrer Salu Þijna, ad henni sie i Fride og Vingan DRottins tijmannlega og eilijflega vel borged; Giæt Þess, ad aller jardnesker Muner eru so sem fanijtt Hey og fallvalltur Hiegoome, Es. 40 sem ad eingu verdur i Daudanum, eñ Þijn odaudlega Sal skal bwa ad Þvi eilijflega, hverniñ Þu hefur sied fyrer heñar

Naade hier tijmañlega; Lat þvi blessada Andlaats Bæn Lausnara þijns kieña þier christeñ Madur,

3. Hvar þu bæde att og kant ad sia Salum fyrir Ohættum Samastad og oruggu Athvarfe, nefnilega: J Naadar og Verndar Hondum þyns himneska Guds og Fodurs: Fader! J þijnar Hendur fel eg miñ Anda. Enn þess ber þier vandlega ad giæta, ad ef þu villt ad Salinn þijn eige vijsann æskilegann Hvijldar og Sælu Sama-Stad i Guds Hende, þegar hun skilur vid Lijkamann i Daudanum, þa sia vel til, ad hun med audmiukre Hlijdne og heilagre Poliñmæde ligge under Guds Hende, æ so leinge sem hañs lyknarfullt Lauglundar Gied-lijdur hana vid Lijkamañ samteyngda hier i Heime; Lat þier, so sem Guds Børnum soomer, stioorna af Guds Naadar Anda, Rom. 8. Lat þig leida af Guds Naadar Hende; Lat þier undervijsa af Guds Naadar Orde, og bevara þad æ jafnañ i þijnu Hiarta, so þu syndger ecke vijsvitande a moote Gude þijnum, Psal. 119. Þocknist Guds Hond ad hyrta þig, þa hrind heñi alldrei fra þier med nockre Opolinmæde, kyss helldur feigeñ a hana med gudrækilegu Umburdarlyndi, og lat þier gott þykia ad falla i Guds Hendur, þvi hañs Myskunseme er stoor, 2. Sam. 24. Þegar mañleg Hialp bilar og brestur i Heiminum, gleym þa ecki ad mæna þijnum Trwar Augum uppa mattuga og myskunarrijka Guds Hond i Himninum, þoott hun leggi þier

þwnga

Þwnnga og Herdar, þa vert viss um ad hun styrkir þig best til ad bera hann, Psal. 68. Guds Mysk-unnar Hond er eingvu sijdur tom og ad græda enn særa, eingvu sijdur fliot til ad lietta af Hörm-ungunum, helldur enn ad laata þær og detta efter sijnum Naadar Vilia, 1. Sam. 2. Minnst þess, bædi ad byria sierhvern Dag Efi þinnar fyrst og Morgnana, og lijka ad enda hann seinast og Kvöll-denn, og þad af Hiarta og Alvoru, med þessare dijrmætu JEsu Andlaats Bæn; Fader, i þijnar Hendur fel eg minn Anda. Og nær þu þann-ig gudrækilega breiter, medann þier er unnt ad lifa, þaa maatt þu vera þess fullviss, ad Saalenn þijn mæter mijskunsarrijkre Adhiwkrun i þijns himn-eska Fodurs Naadar Hende, þegar þu att ad deya, þar mun hun af allri Mædu hægt hvijlast, ad burtvikinne allre Sorg fagurlega glediast, og i eilijfum Dyrdar Fognude saa ad siaa Gud Aug-lite til Auglitis fyrer utann Enda, 1. Cor. 13.

4. Er vel merkiande, ad Sonur Guds JEsus wtvallde sijna sijdurstu Andlaats Bæn af H. Rit-ningu, og took hana ordriett af þess dijra Guds Manns Davids Munne, Psal. 31. Lær þad af þessu Lausnarans Dæme, christenn Madur, ad þu bygger alldrei Bæn þijna og þvi holldlega og for-blindada Hyggiu-Vite, Bid ætijd i Trwnni efter blessadre Guds Orda Reglu, Jac. 5. Bid i JE-su Nafne og efter hans blijda Naadar Vilia, 1. Joh. 5. Vier erum so miog af Holldsins Bern-

ſku blindader, ad vier vitum ecke hvers vier bidium Matth. 20. Leitum þvi i Lijffins Ordi, O Drottins ad þeim ſanna Vijsdoome til ad bidia, ſo Gude meige vel liika, Jac. 1. og vier ſæmum i JEſu Nafne nædarſamlega Bœnheyrſlu.

O! miñ Hiartans Giædſkurijke Gud og Fader, eg grætbæni þig i þijns einaietins Sonar, mijns bleſſada Broodurs JEſu, Nadar Nafne; Vert þu mier nædugur, lyknarfullur og myſkunſamur Gud og Fader i Lijfe Dauda og Doome; Milldirijk Hond þiñar fodurlegu Forſioonar varðveiti mig frä þeim breida Glæpa og Glotunar Vege; almættug Hond þiñar volldugu Verndar og Varateektar ſtydie mig og ſtyrke ä þeim þraungva Lijffins og Sæluhiælpariñar Vege, Miuk Hond þiñar guddoomlegu Hiælpar væge og biarge mier þa beſt, nær eg miſt hef alla mañlega Adſtod. A þijna hyrtande Hond vil eg fegiñ kiſſa med ſonarlegre Undergiefne, Virdſt þu bleſſadur beſt ad æliſta mijna Eymd i fodurlegri Vægd og Myſkunſemi, Pſal. 25. Þijn Hiælpar Hond ſie miñ Hlijfdar-Skiolldur og mitt Sigurviñingar Sverd, i mijnu ſijdarſta Dauda Strijde, þijn Fodur Hond taki þa vid miñi aumu Sælu, og iñleidi hana til eilijfs Lijfs, ſo eg megi þa gladur hiedañ i Fride fara. Fegiñ vil eg med Gudrækni geyma i mijnu Hiarta þitt ſignada Andlæts Ord, miñ ſætaſte JEſu, ſem þu talader ä Kroſsinum; ä! læt þiñ H. Anda miña mig ä þa bleſſudu Bæn,

allra

allra siidarst þa eg skal deya i burt ur Heiminum.

# 45. Piislar Pꝏnke.

## Um Andlꝏt Christi a Krossenum.

**Og sem hañ hafde þetta sagdt, ad hneigdu Høfde, uppgaf hañ siñ Anda.**

HErrert ædra. Elsku-Merke mꝏtte hin eilijfa Giædskañ siina oss syndugum Mønnum; Engeñ addꝏanlegre edur Ogrijpañlegre Dꝏsemdkuñe a Himne edur Jordu til ad bera, helldur eñ þesse, ad hañ, sem er bæde Gud og Madur i einne Persónu, Madureñ JEsus Christur, 1. Tim. 2. Hver ed siꝏlfur er sañur Gud og þad eilijfa Lijfid, Joh. 5. Af Guds Rꝏd vid mañlegt Kyn smackade hann Daudañ ollu daudlegu Mannkyne til Lyknar og Lijfgiafar, Ebr. 2. Gudleg Sanninde eru þad ad vijsu, sem S. Paull seger, Rom. 6. Ad Verdlaun Syndareñar sie Daudeñ; Og med þvi Syndeñ, sem er Daudans Broddur, 1. Cor. 15. hafde sært og helstꝏnged bæde Adam og alla hanns hꝏlldlega Nidia, þa var sa Dauda-Doomur af DRottens strꝏnga Riettlæte epter ollum Mañkyneleikum yfir þeim uppsagdur, ad sierhver, sem syndgar, skule vissulega deya, Ezech. 18 Eñ soddann Sakfelles Doomur ætte einganveginn heima hia þeim saklausa og sañheilaga JEsu hver ed ꝏu allrar Saurgunar var gieteñ og fæddur, og allrar Saurgunar lifde og doo hiñ fegur

ste Lioome Guds Dijrdar, og riett Imynd hanns guddoomlegrar Veru, Ebr. 1. Sa er alldeiles einga Synd giorde, og ecke voru nockur Svik fundeñ i hañs Muune, 1. Pet. 2. Hvar fyrer hefur þa hinn heilage og trwe Guds Þioon so harda Kvala og Dauda Refsing lided, hann sem þo alldrei til nockrar Refsingar uñed hafde? O Drottens Ande leysir hvad liooſast wr þeirre Spurning, fyrer Muñ Spaamañsins Esaiæ, C. 53. segiandi: Ad fyrer vorra Misgiorda Saker sie hñ særdur, og fyrer vorra Synda Saker lemstradur, þvi Drottiñ hafi kastad ollum vorum Syndum uppa hañ. O! sia hier, mijn Saal, med Hiartans Glede og gudrækelegre Forundran, hvilijkañ Kiærleika Gud hefur haft til þijn, 1. Joh. 3. JEsus hefur saklaus i þiñ Stad Straffed lided, hann hefur sialfviliugur þijn vegna Daudañ smackad, so þu sem hafder til Straffs og Dauda unned, skyllder i honum hafa Lijfid og fullkomna Naadar Nægd, Joh. 3. O HErra Gud! hvad var Madureñ þess, ad þu so miñtest hanns, og Mañsins Barn, ad þu so vitiader þess? Psalm. 8. Eg vað, vegna minnar Yfertrodslu og Bodorda Brots, sakfalleñ fyrer almaattugum Gude, og hafde forskulldad fyrer Ogn Daudans i eilijfre Angistar og Kvala Þrælkan halldenn ad vera, Ebr. 2. Logmaaled auglijser minna Synda Verdlaun, Rom. 3. Verdlaun Syndareñar er Daudenn, Rom. 6. Epter Daudañ kiemur Doomureñ, Ebr. 9. Doomureñ

wr-

ewyrkurdar Straffed, Straffed varer um alla Ei-
liifd, Eiliifdenn, sem alldrei endast giorer Kvaler-
nar hvad Ognarlegastar og Obærelegastar.

Ef bad mætte segiast, ad Logmaaled hefde nock-
urn Tijma misgaad siin, þaa hefur þad skied hier
alleinasta einusinne, þar ed þad fellde Doom yfir
siin eigen DRottenn og HErra so laatande; Ad
sa skyllde vera bølfadur, sem a Trie hanger. 5.
Mos. B. 21. og i Krapte þessa Dooms dyrsdest
Daudenn ad vega ad siaalfu Lijfenu: Enn lofadur
sie Lijssins Hofdingenn JEsus, sem svipte Daud-
ann sinne Magt, enn leidde i Lioos Lijfed og Odaud-
legleikann, 2. Tim. 1. JEsus hefur borgad þaa
Sekt, sem Logmaaled af mier heimte; JEsus hef-
ur sundurbroted þann Brodd Kvalanna, sem
Daudenn ad mier otade; JEsus hefur deydt þann
eilijfa Dauda, sem minne Samvitsku Ognade.
J Krapte JEsu Dauda er minn Daude fyrer
Drottne dijrmætur, Psal. 116. enn mier kiærkom-
enn og gledelegur; Daude, hvar er þinn Broddur?
Helvijte, hvar er þinn Sigur? Gude sieu Þack-
er, sem oss hefur Sigurenn giefed fyrer JEsum
Christum, 1. Cor. 15. Nu er Daudenn ord-
enn ollum Guds Bornum gledelegur Jnngangur
til þess eilijfa Lijssins og æskelegur Blessunar A-
bate, Phil. 1. Ecke nær nu Daudans Makt lein-
gra yfir ollum Guds Elskendum, helldur enn til ad
skilia Saal og Lijkama hvert fraa odru; Lijkamenn
leggst med Fride i Svefn-Herberge Grafarennar;

Es. 56. enn Saalen verdur flutt med Fognude i fagrann Abrahams Fadm eilijfrar Sælu, Luc. 16. O minn lijknar fulle Lausnare JEsu! Laat guddoomlegann Naadar Krapt þijns dijrmæta Dauda driwpa inn i mitt Hiarta, mier til gudrækelegrar Betrunar medann eg lifi; Mier til eilijfrar Huggunar, þegar eg aa ad deya! Gief ad eg deyddur frꜳ Syndenne, aastunde ad lifa Gude, Rom. 6. so eg vid Gud fridþægdur, sie og verde hans bæde Lijfs og lidenn. Þu hneigder þitt blessada Hófud aa Krossenum i þinu Andlaate, hneig þitt Hiarta til ad mykuna mier aa minne Dauda Stundu; Gief ad eg sem optast gudrækilega hugleidi og kunngiore þiñ Dauda medañ eg lifi, so eg med Glede mege upplypta mijnum Augum i Himeninn til þijn, og sia ad siaa himneskann Lioma þinnar Dijrdar, þegar eg aa ad deya; Æ! virdst þu, O Drottenn minn, fyrer þinn dijrann Dauda, ad giefa mier goodann, gledelegann og farsælañ Dauda: Laat mitt Holld med Fride hwijla sætlega i Grofinne: Leid mijna Saal wr ollum Eymdum, og lofadu henni ad niota eilijfs Fridar og Fagnadar i þijnu himneska Dijrdar-Rijke, AMEN.

# 46. Pijslar Pꜳnke.

Um Teiknenn, sem skiedu i Christi Andlaate.

Og sia, ad Tiallded Musterisins rifnade sundur i Tvo Parta fra ofanverdu allt nidur i geg num, og Jørden skalf, og Biørgeñ klosnudu, og Graferuar lukust upp, og marger Lijkamer Heilagra risu upp, þeir ed svafu og geingu epter hañs Upprisu i þa H. Borg og auglijstust þar mørgum. Eñ Høfuds-Madureñ, og þeir, sem med hønum voru ad vardveita JEsum, þa þeir sau Jardskialftañ og þad, hvad þar giørdest, urdu þeir miøg Ottaslegner og søgdu: Sannlega var þesse Guds Sonur.

ÞAD er ecke skied af nockre Ovissre Hendingu, helldur Almættes-rijkre DRottens Radstøfun, ad so Dadsemdar og Forundrunar-full Jard-Teikn skiedu i JEsu Dauda: Lærum ockur, mijn Saal, hyggia nockud framar þar ad med Andagt og alvarlegre Gudrækne, þvi þad er einsu sijdur eñ oñur Guds Verk uppteiknad, ockur til Lærdooms og Vidvorunar, 1. Cor. 10.

1. Merkium vid, ad Jordeñ hafi skolfid, og Biorgeñ klofnad i JEsu Andlaate, lijka sem ad villdu þau bera Harm og Medaumkan yfir so hersilegum Kvølum og Dauda sijns DRottens og

Skapara. O! HErra Gud! vijst maa þess syndugs Manns Hiarta vera hardara enn nockur Steinn, sem heyrer rædt um̃ JEsu bitru Kvol og Krossens Dauda, enn viknar þo eckert þar vid, helldur skiemter sier eingu ad sijdur vid Syndarennar Glaum og Giaalijfe Verralldarennar. Eda maa þad ecke þikia hinum stærstu Undrum sæta, ad sw þwnga Jord skalf og hristest, þau hordu Biorg brustu og klofnudu i JEsu Dauda, hverium þau voru þo i eingann Maata olldande; Enn su vesæla Manneskia, sem þo er Molld og Aska, hefur einga Angurs Tilfinning vegna Jllgiorda sinna, fyrer hverra skulld DRottenn Dijrdarennar var so herfelega krossfestur, og Hofdinge Lijfsins so aumkunarlega deyddur, Post. G. B. 3. Hvernenn maa soddann Hiarta, sem er hardara hverium Steine, og vill sier ecke um̃venda, Jer. 5. Hvernenn maa þad hafa nockur Naadar Not af himneskum Daggar-Dropum HErrans JEsu Pijnu og Dauda? Minn Gud mijskune mier, og take naadarsamlega burt fraa mier Stein-Hiarta Ogudlegs Andvaraleyses og Forherdingar, enn giefe mier kiotlegt Hiarta sannar Audmyktar, og gudrækelegrar Yfirbootar! Ezech. 36.

2. Er þad merkelegt, mijn Saal, ad þid innra For-Tialld Musteresins, sem var i mille þess heilaga, og allra helgasta, 2. Mos. B. 26. rifnade sundur þegar DRottenn doo aa Krossenum, til ad sijna þar med, 1.) ad nu skyllde til fulls endast

og

og af tokast Loginalsins Fyrermyndane, hinn Levitiske Kiennemannsskapur og koningleg Stioorn Gydinga, sem allt voru Skuggar og Skijla þeirra himnesku Nꝏdar og Blessunar Giæda, hver nu voru fyrer Lausnarans JEsu Kvol og Dauda ollum Monnum auglijst, afrekud og frambodenn til eilijfrar Mijskunar og Sꝏluhiꝏlpar. Inn fyrer þetta For-Tialld Mustiresins mꝏtte engen gꝏnga inn i þad allra helgasta, nema sꝏ ypparste Presturenu sinnecꝏ Are, 3. Mos. B. 16. Þesse Skijla rifnade sundur i JEsu Dauda, 2.) Til ad sijna, ad nu være hryggeleg Hindran Syndanna Sektar og Saurenda, sem bægde oss daudlegum Monnum frꝏ DRottens Helgedoome, fyrer Jesu Dauda, olldunges wr Vege tekenn, enn ollum þeim, er þiggia vilia og kunna, frambodenn frij-opp-enn Tilgꝏngur, og hindrunarlaus Blessunar Vegur, fyrst til hins andlega Helgedooms þeirrar krijdande Guds Kyrkiu hier i Heime, hvar ed dijrdleger Hluter DRottens Nꝏdar og Blessunar verda i Guds Borg Guds Bornum prediker og frambodner, Psalm. 87. Og ad sijdurstu hafe JEsus med sijnum Dauda opnad ollum sijnum trwudum Elskendum fagra Fridar-Braut i giegnum Daudann inn i eilijfann Dyrdar Helgedoom hinnar Sigre hroosande Guds Christne i Himnenum, hvar ed vera mun Gnoott Fagnadarens, og gledelegt Lijferne til Guds hægre Handar eilijflega, Psalm. 16.

3.

3. Vitnar Historiann, ad fyrer Guddoomlegann Lyknar og Lijfgunar Kraft JEsu Dauda, hafe Grafernar upplokest, og marger Lijkamer heilagra rïsed upp, til eins gledelegs Merkes þar um̃, ad i JEsu Dauda være Daudeñ uppsvelgdur i Sigur, og ad hann deyande hefde hvad best orded allra siña Barna Lijf, og giort þeim Daudann ad besta Blessunar Abata. Eñ þad er fierdeiles merkelegt, mijn Sæl, ad þa hid fyrsta, þegar JEsus var upprisenn, opennberudust eiñeñ þeir heilogu Guds Viner, sem i DRottens Dauda hofdu endurlifnad, þvi hier giordest Guds Sonur hinn fegurste Frum-Groode þeirra fram̃lidnu, 1. Cor. 15. Og hefur so þar med afrekad ollum sijnum blessudum Bornum sæluhiælplega Endurlausn og Sigur-rijka Upprisu vor Grofunum æ sijdarsta Deige til eilijfrar Dijrdar og Sælu æ Lande lifande Manna.

4. Augliijstest hier guddoomlegur Dæsemdar Kraptur JEsu Dauda æ þeim heidna Hofuds Manne, og ollu þvi Foolke sem horfde æ þesse furdanlegu Stoormerke, og hlaut med hræddu Hiarta og nagande Samvitsku ad jæta JEsum ad vera riettlætañ og sañheilagañ Guds Son, hverium þeir hofdu þo skom̃u ædur, so sem hinum argasta Glæpa Mañe, vtskvfad, og nærsta hrapalega ostad Kvala og Krossens Dauda. Varast þu, O Madur! af þessu Dæme, ad rasa nockurn Tijma fyrer Raad fram̃ i Athofnum þijnum

og

og Aliktunum, þvi margur giörer það ſkama St-
und, ſem hann mœ leinge ydraſt epter; Hendla
þvi jafnann i Guds Otta med ſkynſamlegre Um-
þeinkingu, ſo þu ecke, ſem diarfur Dære, ſteiper
þier i Angiſt og Olucku, Ordsk. 15. O! miñ hia-
rtkiæraſte Lauſnare JEſu! þu ſem a Kroſsenum
deyande umvendter þeim heidna Hofuds-Mañe
til ſannrar Ydrunar, og þinnar Sæluhiælplegu
Vidurkieñingar; Virdſt þu, O Drotteñ miñ, ſem
nu ert i Himnenum eilijflega rijkiande, ad ſkapa i
mier hreint Hiarta i ſañre Ydran og Umvendan!
virdſtu ad ebla med mier nijann ſtødugann Anda
i ſæluhiælplegre Trw, og gudrækelegre Lifnadar-
ens Betran, ſo eg bæde i Lijfe og Dauda meige
hiœ þier Frid og Myſkun finna, Amen.

## 47. Pijſlar Pœnke.

Um Chriſti Kunningia.

ENN aller hanns Kuñingiar
ſtoodu lœngt fra, þar voru og
margar Konur, ſem ſau þar
uppa aleingdar, medal hver-
ra var Maria Magdalena, og
Maria hiñs litla Jacobs, og Joſes
Mooder, og Salome Mooder þeirra Ze-
bedæi Sona, þær hønum høfdu epter-
fylgt þa hañ var i Galilæa, og þioonad
høn-

honum, og margar adrar, hverlar med honum höfdu uppfared til Jerusalem yr Galilæa, og horfdu a þetta.

Afstvel þoott ein tryggur og falslaus Vinur sie so betsta Eign, og hinn kostulegaste Dijr-Grip pur sem finnast maa hiaa syndugum Monnum Syr. 6. Þa er hann þo reindar, eins og öll önnur Jardnesk Giæde, fallvalltur og fanijtur Hiegoome, Pred. 1. Ein trwfastur Vinur er ad sonnu ørigg Vernd alla þa Stund, sem Madur lifer, Syr. 6. Enn nær hinn kallde Daude kiemur ad Hondum, þa maa eingenn Veralldar Mannsins Vinaatta framar hialpa; Þa hlioota öll Jardnesk Lijffins og Luckunar Giæde, so sem Gufa, ad hiadna og hverfa i burtu, Jac. 4. Aller Lausnarans JEsu Viner og Kunningiar horfdu med hamande Hiarta og grætande Augum uppaa hans blessada Lijkama allsnakenn, alsærdann og andvana a Krossenum hangande, enn gaatu þo ecke adgiordt, nie honum nockra Hialp audsynt. Lattum ockur mijn Saal af þessu Dæme, ockur til gudrækelegrar Eptertecktar, læra og athuga:

1. Hversu fanijtt og fallvallt þad er, ad setia of-mikla Von uppa Veralldar Mannanna Vinfeinge og Adstod, sem bregdst og bilar þa helldst, nær mest aliggur. J adþreingiande Lijffsins Tymdum kann ad vijsu eins Vinar Hond nockvænna Adhlijnkrun og Hialp ad veita, enn vr

Daud-

Daudans Böndum megnar ecke einn Brooder aññann ad leysa, Psalm. 49. Þad er øll mannleg Hiælpræte, og hlijtur med Hrygd og Harme ad lata vid so bræd standa. Siaa þvi vel til, Saala mijn, ad þu eiger giædskurijkann Gud fyrer Vin, þvi hañs Vinar Hiarta vill þier alldrei gleyma; Hanns Vinar Hond þier alldrei sleppa. Vilier þu, O! Madur i DRottens Fride deya, þaa kappkosta i hañs Vingan ad lifa, Viñ þad alldrei fyrir Veralldar Mañanna fænijtt Vinfeinge, ad abla þier med vijsvitande Glæpa Ydiu eilijfrar og obærilegrar Guds Oblijdu, Halltu med helgre Trw og hreinferdugu Lijferne hiartanlegann og hræsnislausann Vinskap vid þiñ mættugasta og milldasta Astvin JEsum, sem þig hefur elskad, og vill elska allt til Enda, Joh. 13. Elskadu ecke Heiminn, nie nockud þad illt og Ogudlegt sem er i Heiminum, 1. Joh. 2. so þu briooter ecke af þier Ast og Nææd þijns besta Astvinar JEsu i Himninum; Hanns Hond hiælpar þier best, þegar øll mannleg Hiælp er ræte; Hanns Hiarta elskar þig heitast, þegar øll Heimsins Elska maa ecke leingur duga: Þoott Moodurin foraleyme sijnu Barne, so hun siææ ecke aumur ææ Afkvæme sijns Kvidar, þaa kann JEsus ecke, og vill ecke aleyma þier ad eilijfu, þvi þu ert teiknadur i hanns Hondum.

a. Lærum vid þad Saala mijn, af þessu Dæmi,

ad þeir sem JEsu voru hvad nꜳteingdaster i Elsk-
unne, voru honum og hvad nꜳlægaster i Pijnunni,
og so geingur þad til enn nú i Dag, ad Christs
Born eru Kross Born; Ef þu villt so sem JE-
su Astvin una þier vid hanns Elsku i þijnu Hiar-
ta, þꜳ hlijtur þu so sem JEsu Læriſveinn ad bera
hanns Kross med Þolinmæde þier ꜳ Herdum,
Luc. 14. Og eru þad reyndar eingver Okoster,
þvi under eins og JEsus leggur ꜳ þig Krossens
Þwnga, under eins giefur hann þier Styrk og
Krapta til ad bera hann, Psalm. 68. So mikid
sem þu verdur under JEsu Kross-Byrde þꜳd-
ur og þiakadur, so kroptuglega verdur þu sijdan af
JEsu nꜳdarrijku Hiarta Giædsku gladdur og
endurnærdur, 2. Cor. 1.

3. Er vel merkiande, ad jafnvel þo JEsu Ast-
viner hafe staded nockud langt frꜳ hans Krosse,
hafa þeir þo aller sameiginlega haft fulla Sioon ꜳ
hanns bloodugu Pijnslar-Mynd. O! komed i
Drottins Nafne, þier christnar Sꜳler, og lijted
sem optast ydar andlegum Trwar, Bænar, og
Elsku Augum uppꜳ ydar krossfesta og blessada
Lausnara JEsum; Þvi hormulegar sem ydar
Synda og Sorga Neyd særer og ꜳngrar ydur,
þvi kroptuglegar mun blessud og bloodug JEsu
Pijnslar Mind lækna og lijfga ydar Gied og Sinne.
Ef ad þier erud þiꜳdar og þreittar ordnar under
ydar þwngu Synda og Synda Byrde, þa vited
ad JEsu svijdande Sꜳr er ydar hægasta Hvijl-
dar

þar Sæng, Hanns fossande Blood-Dropar, ydar sætasta Svala-Lind; Siaied hversu hann bar ydar Kranckdæme og ydar Pijnum hlood hañ uppa sig, Es. 53. So hañ bædi villdi og kynni þess inyskunsamlegar ad hafa Medaumkan med ydar Eymdum, Ebr. 5. Sie ydar Samvitska særd og kramenn af Syndaña Tilfinningu, O! horfed þa beint a blessadañ JEsu Blood-Fadm, þar finned þier ydar fullkomna Synda Boot og saluhiælplega Nadar Lækningu: Siaied hvad þvingt ad Hegningenn hefur a heilögum JEsu leiged, so þier, sem af Syndenne særder erud, skyll-dud hafa Fridenn, og fyrer hanns Beniar heil-brygder verda, 1. Pet. 2. Sierhver medal Jsra-els Barna, sem leit þann uppfesta Eyrorm i Ey-deinörkinne fordum, vard af eytrudu Höggorma Bite og brennande Plaagu gledilega læknadur, 4. Mos. B. 21. Hversu banvænt sem þitt Synda Saar kann ad vera, þu ydrande Saala, þa er þi-er handvijs himnesk Nadar Lækning, þegar þu mæner Augum audmiwkrar Trwar uppa þinn a Krossiñ festa Endurlausnara og Saaluhiælp-ara JEsum; Þu munt ecke fortapast i þijnum Synda Meinum, helldur fiña himneska Heilsu-Boot og hreppa ad Lyktunum eilijft Lijf, Joh. 3. O! minn elskulegaste JEsu, Eg vesæll Syndare, mæne nu, so sem aleingdat og i Fiarska verande, minne Hugskots Sioon uppa þinn blessada Blood-Fadm, so sem þu hieckst fordum a Kross-

 in,

inum, Uppliis þu DRottenn mijn dyru Erwar. og Vonar Augu, so eg mege horfa a þitt Myskunar Hiarta og finna þar af Lyfn og Lækning, þar sem þu situr nu i Himninum, þegar eg sie mijn rotnu Synda Kaun, þa sviidur mijnu Hiarta med sarre Angurs Tilfinningu, æ! losadu mier Lausnare minn, ad lijta i Trwnne þiin bloodugu Pijslar Saar, so eg mege finna þar af blessada Meina Boot og Myskunar Smurningu, laat alldrei Synder mijnar skilia so lengt a mille mijn og þijn, ad eg i mijnu Synda Bóle, tillsse ånd legrar Sioonar a Saarum þijnum. Hiaalpa mier til ad heita og vera þinn Vin og Kunninge minn JEsu, so þo Lijf mitt og Saal vanmegnist, meige eg samt una mier vid þijna Ast og Millde. Eg fel mig, med Saalu og Lijkama, og alla mijna, i Vernd og Skiool þinnar Elsku og Myskunar; Laat mig i Lijfe og Dauda finna þar inne oruggt Naadar Hæle, og ofallvallt Lyknar Skiool, allt þar til eg sie til fulls, ad una mier vid þijna Elsku i eilijfu Lijfe, og þu minn JEsu verdur mier þar allt i ollu, Amen.

# 48. Pijslar Þanke.

Um Christi Sijdu-Saar.



NN Gydingar med þvi þad var Adfanga Dagurenn so ad Lijkamarner være ecke a Krossinum um Sabbaths Daginn (þvi sa same Sabbaths-

Dagur var mikell), þa bądu þeir Pilatum, ad þeirra Bein brytest og ofantækest. Þa komu Strijds-Meñerner, og brutu sundur Bein hins fyrsta, og so þess añars, sem med honum voru krossfester, Eñ þa þeir komu til JEsum og saau ad hann var allareidu dæeñ, þa brutu þeir ecki hañs Bein, helldur opnade eiñ af Strijds-Mønnunum hañs Sijdu med Spioote, og strax þa rañ þar wt Blood og Vatn. Og sa er þad hefur sied ber þar Vitne uñ, og hañs Vitnisburdur er sañur, og hañ same veit þad ad hann seger satt, so ad þier og so trwed. Þetta er skied, so ad Ritningarnar uppfylldust: Eige skulud þier briota nockud hanns Bein. Og eñ aptur seger oñur Ritning: Þeir munu sia hann, i hvern þeir stwngu.

I fyrstu meigum vid, Saala mijn, med gudrækilegri Forundran rekia hier Spor dijrdarfullrar DRottins Speke og dasamlegrar Raadstøfunar, sem ecki villdi lijda Heiptar Frekiu hinna gudlausu Strijds-Manna ad briota i sundur Bein i andvana Lausnarans Lijkama, so ad bæde fyllde Fyrirmyndan Paaska Lambsins, hvers

 Bein

Bein ecke mœtte brioota, 2. Mos. B. 12. Og lijka Spaadoomur Zachariæ, Cap. 12. Uñ Lausnarans Sijdu Saar, auglioosslega rætast og fagurlega uppfyllast. Panninn lijta hin alskignu DRottins Augu yfer þa riettlaatu bæde lijfs og lidna; Hann ber millidirijka Myskunar Umhyggiu jafnvel fyrer þeirra andvana Lijke, og lijklausu Beinum, so þoott þau, epter Edle syndumspilltrar Naatturu, verde aptur ad Mólldu hvadann þau eru affomenn, þa forvarar þo DRottins Naadar Forsioon þau so dœsamlega ad eckert af þeim brotnar, eda olldungis tortijnest, Psalm. 34. Oll sea þau i Fride ad hvijla, þar til þau, med fagre Dijrdar Forklaaran, skulu til eilijfrar Vegsemdar upprijsa og endurlifna, 1. Cor. 15. O! hvad gott og gledilegt er þad, fyrer Guds Born bæde deyande og lifande, ad falla i Lyknar Hendur DRottins, 2. Sam. 24. Hœleitlega sosiid sie hanns mikla Myskun ad eilijfu!

J odrulage merkium vid, Saala mijn, ad lijka so sem almœttugur Gud af Sijdu hinns sofnada Adams i Alldingardinum, dœsamlega myndade, og sijdann gaf honum eina frijda Konu og fagra Brwde, hveria hann af Svefne aptur uppvaknadur, sæmde med þvi veglega Nafne, ad hun skyllde Karlinna kallast, þvi hun væri af Karlmanne komin, 1. Mos. B. 2. Vidlijka virdest mier, ad hinn añar Adam, og hæblessadur Himnaña DRotteñ JEsus, i sijnu signada Andlaate

laate aa Krossenum sofnadúr, hafi af sijnu opnada Sijdu-Saare, og þadañ wtrunnu Bloode og Vatne, tilreidt sier dijrdlegann Soſnud siña heilogu og blessudu Barna, og trwlofad sier þau, so sem andlega Brwde, i Naad og Myskun, i Riettlæte og Doome, Os.2. Og þaa hañ blessadur, af brennande Kiærleik til þessarar Brwdur sinnar, hafde nu daaed fyrer hennar Synder, uppriſed henne til Riettlætes, Rom.4. Og var med Guddoomlegre Haatign til Himna uppfarenn, fieck hun þann ypparlega Æru-Titel, ad nefnast **Christne** epter sijnum blessada Brwdguma **Christo**, Post. G. B. 11.

J þridia maata maa siaa hier og siña fagra Merking þeirrar heilogu og blessudu Skijrnar. Af JEsu Sijdu wtrann Blood og Vatn aa Krossenum: J JEsu Nafne, og af sinne einskærre Naad og Myskun, giorer Gud oss saaluhoolpna fyrer þag heilogu Skijrnar Laug, Tit.3. J hverre vier verdum aadreifder þvi naatturlega og jardneska Vaatne, sem vor Lijkamans Augu siaa, enn þaa under eins fær vor andlega Trwar Sioon ad lijta, vor andlega Trwar Hond ad medtaka Guddoomlegann Blessunar Krapt þess dijra JEsu Bloods, sem drypur yfir oss, i og aasamt med Skijrnar Vatnenu, til ad þvo oss af vorum Syndum, og giora oss til andlegra Konunga og Kieñimanna fyrer Naadar Auglite vors himnesk: Guds og Fodurs, Openb. B. 1.

Jt fioorda Masta, vilium vid, Saktd mijnj med sannre Gudræknc forlysta, ockur enn framar med andlegre Yfirvegan þess opnada JEsu Sijdu Sars a Krossenum. Joh. 19. Maklega meigum vid Sancte Thomam sælan prijsa, sem sinne veike Trw til veglegrar Styrkingar, fieck Leifi til ad þreifa a Frelsarans JEsu Saara Orum, Joh. 20. Æ, ecke munt þu helldur bana mine þiaadre Saalu, minn blessade JEsu, sijnum dopru Trwar Augum ad þau horfa, mier til Saaluhialplegrar Glede og Hiartans Huggunar. Allan Motti ul sijns heilaga Lijkama, hafde Lausnarenn ad dur laugad i Bloode, 1. Mos. 49. sem af ollum hans opnudu Saarum og sundurflakande Ædum wt flooda og streymdu til fullkomennar Fridþægingar ar ollu syndugu Mannkyne: Enn so eg mætte þess augliooslegar sia og sanna mijns JEsu elskurijka Astar Þel til mijn, þa villde hann blessadur ecke helldur lata vera osærdar sijnar heilogu Hiarta Ædar, til gledelegs og obrygdanlegs Merkes þar um, ad hanns Myskunar Hiarta være sundur brysted af Medaumkan yfir mier, Jer. 31.

Þar voru fordum opnar Dyr a einne Sijdu Noa Arkar, inn um hveriar milldur Gud bood ad Menn og Skiepnur skylldu ganga, til ad þig gia Lijf, Lausn og Frelse af þvi yfirdyniande Dagnarlega Vatns-Floode, 1. Mos. 6. 7. Fyrer Drottens JEsu dijrmætt Sijdu Saar er þien Saalu mijn, og ollum Syndum þiadum Veraldar-

Augum upploknar fagrar Lijfsins og Næadar Dyr, innan hverra ockur verdur fram ollu Neide og Ne-ydar Flood: nær arsamlega biargad, og ad eilijfu vel borgeð; JEsus skyler ockur med sijnum Mys-kunar Fiodrum, og ockar Athvarf er under hanns Vængia Vernd, Ps. 91. Gledelegt hefur þad vered fyrer Noa fordum, inneluktan i dimmum Skugga, og dyniande Vatns Bylgium umkringdan, ad horfa giegnum Arkarennar Glugga upp til Himens og vænta epter sijnu gledelegu Fr-elsi, og fagre Soolarennar Byrtu, 1. Mos. B. 6. Þusundsinnum gledelegra er þad fyrer mijna Syndanna Myrkrum umkringda, og af Sorganna Bylgium hrakta Sælu og Samvitsku ad fa ad horfa giegnum oped JEsu Sijdu Sar a Kross-enum inni Naadlioomande Elsku Hiarta mijns gooda og giædskuriska Guds og Foodurs i Himne-num; Þar sæ eg med Fognude ad lijta, ad DRottenn er mitt Lioos og minn Heilsugiafare midt i mijnum Hormungum, Psalm. 27. Og mun lok-sins leida mig ur ollum Eymda Skugga og Ang-urs Bylgium inn i blessada Sælu Hofn og biart Glede Lioos eilijfrar Himnanna Glede.

Þad var millderijkt DRottens Dad semdar Verk, ad þegar Moyses sloo med sijnum Staf a Steinen i Horeb, þaa utflaut þadan nooglegt Vatn, hressandi og þreyttum Israels Bornum til hiälparmar Svolunar, 2. Mos. B. 17. Miklu sterra Millde Verk, lifanda Guds skiede hier i

JEsu Pijnu, þar ed sa himneske Faderen̄ hefur lofsted siins Eingietens Sonar Hiarta med siinum ReideSprota, og lated hans H. Siidu medSverde giegnum stiinga, til þess, ad hiner sætustu Liifs og Blessunar-Straumar skylldu þadan̄ wtflioota ollum Naad-þyrstum Saalum til himneskrar Svolunar og liifkroftugrar Endurlausnar. Vid þennann frij-opna Naadar-Brunnenn skal miin þyrsta og þiaada Saal fegen þreya, þar mun JEsus giefa hen̄e ad drecka Liiffins Vatn, sem i ollum hennar Angistar Þorsta verdur henni Brunnur sa, er flytur til eiliifs Liifs, Joh. 3. J þessar signudu Biargskorur þess blessada JEsu Siidu-Saars, Loftv. 2. skal miin skielfda Samvitska sem optast flija, þar mun JEsus vera hennar Hiaalpar Skiolldur, og Naadarfull Verndan fraa ollu Jllu. O minn lyknarfullaste Lausnare JEsu! Þier er kunnugast hversu hersilega mitt Hiarta er saurgad af Syndaren̄ar Endeme, hreinsa þu þad og helga, O Drottenn minn, med þijnu guddoomlega HiartaBlode! Þu þecker betst hversu þiaad og mædd miin Saal er ordenn under Syndan̄a Byrde: Eg grææbæne þig, O JEsu, endurnær hana og liifga af þijnum sætasta Naadar Brun̄e; Hiarta miins in̄sta Ædar skulu þitt Naadar Nafn elska, viidfrægia og vegsama: Hiarta þijns heilogu Bloods og Vatns Straumar, virdest miina aumu Saal ad hreinsa og hressa, græda, gledia og blessa. Hiartans eiliifar Packer og Odaudleg

Æra

Æra syngest hier og segest bæde a Himne og Jørdu, um Tijma og endalausa Eilijfd; Amen.

# 49. Pijslar Pænke.

Um Christi Greftran.

HAr epter bad Joseph af Arimathia [hver ed var Lærefvein Jesu, þo heimuglegur fyrer Otta saker vid Gydinga] Pilatum uisi, ad hañ mætte taka nidur Lijkamañ JEsu, og Pilatus leyfde hønum þad; Þa kom hañ og took nidur Lijkamañ Jesu. Þar kom oa Nicodemus, sa ed fyrr kom uñ Noott til JEsum, færande sam blandada Myrru vid Aloe nær Hundrad Punda. Þa tooku þeir Lijkamañ Jesu og sveipudu hañ i Lijne med dijrmætu Salve, so sem Gydinga Sidur er til ad greftra. Eñ þar i þeim Stad, sem hañ var krossfestur, var Grasgardur, og i Grasgardenum ny Grof, i hveria engeñ hafde eñ vered lagdur. Þangad løgdu þeir Jesum fyrer Saker Adfanga Dagsins Gydinga, þvi sw Grof var nærre.

AF O-dœanlegt Glede og Blessunar Efne er þad fyrer ockur, mijn Saal, ad hugleida HErrans

JEsu

JEsu heidurlega Grefttan, þvi i þessum fagra Aldengarde spretta margar heilnæmar Himna-Urter fealuhiealplegra Lærdooma, sem vid skulum med Gudrækne geyma.

1. Sioaum vid hier vid JEsu Greftran þaa Gudhræddu Menn Joseph og Nicodemum, sem adur voru heimugleger JEsu Læresveinar og þorðu ecke ad laata sig opeñberlega þar med mierkia; Enn nu faa þeir nijañ Dug og Ddeiga Diörfung, til ad auglijsa fyrer ollum sitt Astar-Þel til himneskum andvana JEsum. Þannig vill hinn naaduge Gud ecke utslockva þañ lijtt-logande Truar-Hör, Kveik i Hiarta sinna blessadra Barna, Es. 42. helldur nærer hañ og lijfgar himneskur Naadar-Kraptur H. Anda, so þar af kviknar fagurt Truar-Lioos, og yndeslegur Dygdaña Lioome bæde fyrer Gude og Monnum, Matth. 5. Hugge sig vid þetta vegleg a Dæme aller synduger, enn þo sannydranndе: Aller veiktruader, enn þo riett-truader; Aller hrædder, eñ þo gudlega hriggver D Rottens Vesalingar. Samur er Gud i sinne Myskun einn ha, og hañ hefur vered; Grætbænum þvi hañs Naad at Giædsku, ad hann virdest ad styrkia vora veiku Trú; Nærum þetta dapra Lioos med ydugleg re Eftertekt og Yfirvegan JEsu lijfkröftugu Orda, þa mun hann blessadur betst fyrer þeim bidia, so þeirra Trú þrotne ecke, Luc. 22. D mijñ giæðskurijkaste Jesu! Veit mier veikum Vesaling Kraft, epter Rijkdoome þinnar Naadar, ad styrkiast

fyr-

fyrer Þinn Anda i jaaluhiaalplegre Trw, og sannre Hiartans Ast til Þijn, sem opennberlega mege hiaa mier skijnast og auglijsast, Þijnu blessada Nafne til Dyrdar, enn ødrum til goods Epterdæmes.

2. Maa hier sia og læra af sooma samlegre Lausnarans Jardar-For, ad Þad er einga  vegenn millum Gude aa moote, ad hanns framlidnum Astvinum sie veitt ærleg Grefstran, Syr. 28. Guds Ande helgar og prijder allra riett-Christena Manna Lijkame, so sem sijn dijrmæt Mustere, med sinne Naadarfullre Ibwd aa medann Þeir lifa; Þvi er Þad velverdugt, ad Þeim sie med Sooma og Æru af Þeim efterlifande veitt sw sijdarsta Þioonusta, Þegar Þeir deya, Þo med goodre Stilling og i Guds Otta, Þvi Ohooflegar Erfis-Dryckiur og annar hiegoomlegur Heidingia Sidur ætte ecke ad nefnast, miklu sijdur brwkast medal vor christena Manna, sem einkannlegast i soddann Eyrendum, ætlum sialfer ad ganga Þwngbwner med Daudans gudrækelega Hugleiding. Jaa, i hvert sinn, sem Þu, christenn Madur, sier nockurt andvana Lijk til sins sijdarsta Legstadar bored, Þa skallt Þu i Guds Otta hryggur vera, og hugsa til Þess, ad so sem sa sami Þinn Brooder hefur daaed, so hlijtur Þu einenn ad deya, Syr. 38. Þegar Þu sier Lijked lated ofann i Jordena, Þa imynda Þier Daudann i Eyra Þitt hvijslande, ad skie mege Þar sie varla eitt Foot-Maal millum Þijn og hanns, 2. Sam. 20. og Þu siger sia Spor epter fram aa Grafar-Backann.

Vid

Bid þvi Gud med audmiwku Hiarta, ad kieña þier, ad hugsa um þiñ Dauda og bwast vid honum riettelega, Ps. 39. so þu meiger i JEsu Nafne taka a moote honum gledelega. Virdst þu, miñ goode JEsu! fyrer þijna heilogu Jardan, ad blessa og farsæla mijna sijdurstu Utfor af þessum Eymda-Dal; Lat þa mitt andvana Hollð med Æru i Grofina leggiast, enn veit, ad Saalenn mijn verde innleidd i eilijfann Dijrdar-Frid og Fognud.

5. Giefst hier ollum oss daudlegum DRottens Vesælingum ylmsæt Huggun moot Daudans Ogn og Beyskleika, þar ed Sonur Guds hefur lated sig grefstra til Heidurs og heillasomustu Blessunar allra siña Astvina sijdurstu Jardar-För. Jesu helgaasta Holld, sem lagt var i Grofina, hefur ollum hañs helgudum Bornum helgad Jordina og blessad hana, bædi medañ þau lifa a henni, og lijka þegar þau skulu latiñ leggiast i heñar Skaut; hañ hefur giordt þeim Grofina ad gledilegu Svefn-Herbergi, Moldina ad miwkri Sæng, hvar þeirra blessadur Lijkami, so sem dijrmætt Ordtisins Korn-Sæd, skal i Fridi geymast, þar til þad i Uppristu Riettlaatra endurlifnar til eilijfrar Gledi og innsafnast i Bindim lifandi Manna hia DRottni Gudi sijnum, 2. Sam. 25. Gief þu mier, minn glædskurijki Lausnari, gudrækilega ad lifa, so eg megi gledilega deya! Gef mier so gledilega ad deya, ad eg i gegnum Daudann megi innganga til eilijfs Lijfs, Fridar og Fagnadar; Veit mier

sem

sem Guds Barne i Grøfina ad leggiast, so eg sem Guds Barn mege a sijdarsta Dege fyrer þijnum Doomstoole byrtast, Amen.

# 50. Pijslar Panke.

## Um Vardhallds-Mennena.

Oh annan Dag, þann sem efter Adfanga-Dagenn er, søfnuduft saman þeir yppurstu Prestar asamt til Pilatum og søgdu: Herra! Vær minnunst a þad, ad þesse Svikare sagde, þa er hann lifde: Epter Þria Daga mun eg uppriisa; af þvi skipa þu ad forvara Grøfina, allt til hins Þridia Dags, so eige kome hanns Lærefveinar um Noott, og stele hønum i burt, og sege Foolkenu, ad hann sie upprisenn af Dauda, og verde hin setnne Villann argare hinne fyrre. Pilatus sagde til þeirra: Þar hafid þier Vard-Mennina, fared og forvared sem þier hafid Vit a. Enn þeir geingu i burt og forvørudu Grøfina med Vardmønnunum, og innsigludu Steinenn.

Ohgnarlegt er um þad ad hugsa, mijn Saal, hver su heitt ad Vaal Heiptarennar brennur i Mannsins Hiarta, þegar þad hefur ecke Guds Kiærleika i sier

i ſier bliifande, þad maa med øllum Riette þar uñi ſegia, ſem Poſtuleñ Jacob vottar uñ vonda Tungu, ad þad er upptendrad af Helvijte, Jac. 3. Þetta maa liooſlega ſiaa af Dæme hinna gudlauſu Gydinga, hverra Heiptar-Giede og Hiartans Illſku þad þookte ecke nægia, ad þeir hofdu h nn ſaklauſa JEſum ſo hryggelega kvaled og hormulega ꝛotleiked i Lijfenu, helldur laſta þeir lijka hañs bleſſada Nafn og Miñing i Grofiñe. Varaſtu, O Madur! ſoddañ Fijſlſku og forblindada Heiptrækne, ef þu viilt vera Guds Barn og Vinur; Laſtadu alldrei nie lȧttu Mollder edur Minning framlidenna Manna, fordaſtu þeirra vondu Viite, ef þu veitſt nockur vered hafa, enn legg eingañ Loſtunar edur Sakfelles Doom þar aa; Þvi hver ert þu ſem annarlegañ Þioon dæmer, ſaa daude ſtendur og fellr ſijnum Herra, Rom. 14. Giært þvi ſem beſt i Guds Otta ad þijnum eigeñ Hogum, og hugſa til þeſs, ad DRottenñ er ſaa, ſem dæmer þig, 1. Cor. 4.

Gydingar þeinktu ad nidurþryckia og dempa Dijrd DRottens Upprifu, med þvi, ad beidaſt Vardhallds-Mañaña, ſem Grofina ſkylldu vakta; Eñ þad ſama hefur DRottens alviiſa Raadſtofun læted heñe verda til liooſaſta Vitnes og vijdfrægustu Vegſemdar; Þvi hefdu ecke Vardmeñerner vered tilſetter hiaa Grofiñe, þa hefdu þeir haft ſtærre Ordſok til ad efaſt uñ Lauſnarans Upprifu; Eñ nu hafa þeir ſiaalfer berlega og auglioosleg vitnad uñ allt þad ſin hia Guds Sonar

Grof

Grøf giørdst hafde, Matth. 28. so ecki gaatu sialf-er Kiennimenn Gydinga niðurbryckt þessum guð-lega Sannleika. Þannin Onijter almaattugur Gud øll Svikraade og Vielabrøgd Ogudlegra Manna, nær hønum blessuðum so þocknast, enn Raad DRottins stendur stødugt ad eilijfu, hans haaleita Nafne til Odaudlegrar Vegsemdar, enn øllum hans hiartkiæru Børnum til æskilegra Vel-ferla og vegleguſtu Blessunar Nota, Psal. 33.

Allra sijdarst leita eg aumur Vesælingur mijnu Hiarta og Þaunkum Hvijldar og Huggunar vid þijna H. Grøf, minn haablessade Lausnare JEsu: þijn dijra Greftran er mier daudlegre Skiepnu sæt Svala Lynd mooti Daudans Ogn og Ofbode. Þu blessada Guds Lamb barst mijnar Synder i þinni bitru Pijnu mier til eilijfrar Myskunar: Þu forlijkader mig vid Gud med þijnum dijra Dau-da og borgader mijna Synda Sekt mier til eilijf-rar Kvittunar, þu afmaader alla mijna Glæpe med þinni heiløgu Greftran, og kastader þeim i Hafsins Diwp þinnar grunnlausu Myskunar, so þeirra Minning mun alldrei meir til maklegs St-raffs, ad eilijfu uppkoma, Mich. 7. Þannig hefur þu, Drottinn minn minni Ifertrodslu hamlad, mijn-na Synd innsiglad, minn Misgiorning forlijkad, og mier, asamt øllum ydrande og truandum Saal-um til æskileguſtu Blessunar, þad eilijfa Riettlæte afrekad, Dan. 9. Laattu nu, DRottinn minn þinn dijra Dauda deyda mijnar vondu Gyrnder, Laat

 þijna

þijna heilogu Grefftran hylia mijna liootu Glæpe, Lát þijna dijrdarfulla Upprisu efla med mier alls-hátta da gudlega Krapta, sem til Lijfsins og gud-legs Athæfis þiena, 2. Pet. 1. Gief ad Stein-Þroo mijns Hiarta, sem þu hefur siálfur med þij-num Náadar Anda tilbwed, sie þier vel tilreiddur og þægilegur Bwstadur, hvar inni eg megi vefia þig, miñ Hiartans Brwdgume, i hvijtum Lijn-dwkum heilagrar Trwar, og smyria þig med ylm-ande Smyrslum audmiwkrar og elskufullrar Yd-runar. Hvijl þu so, miñ blessade JEsu, i mijnu mædda Hiarta og Brioste, og veit mier hæga Hvijld ad fiña i þijnum miwka Myskunar Fad-mi! Lát þijns H. Anda himneskañ Náadar-Kr-apt iñsigla þessa andlegu Steinþroo med oruggu og elskufullu Trwnadar-Trauste, so ad eg sleppe þier alldrei, þangad til þu blessar mig med þinne dijrdarfullu Náavist og æskilegustu Fagnadar Sioon i eilijfre Himnaña Glede! Eja værum vier þar, Eja værum vier þar! En þier, þu Lyknarfulla Lambed Guds, vor Lausnare JEsu Christe! Sie Lof og Dijrd, og Speke, og Þacker og Heidur, og Kraptur og Styrkleike frá Eilijfd til Eilijfd-ar; AMEN.

* * * *

* * *

Bæn.

# Bæn,

## Sem lesast mꜳ epter Predikun ꜳ Midviku-Dogum i Fostu.

Þu alleina goode Gud og giædskurijkaste Myskunsemdaña Fader, Vier brotleger Syndarar, enn þo þijnar dijrkeyptar-Barna Skiepnur, krivpum i Dag ꜳ FootSkor þijna, og segium þier med samstemande Hiarta og Muñi audmiwkt Lof og iñilegustu Ástar Þacker fyrer þꜳ Ovidjafnaúlegu Rꜳd og Ometañlegañ Kiærleika, ad þu þyrmder ecke þijnum Eingietnum Syne, helldur gafst hañ wt til þess, ad hañ skyllde lijda þær sꜳrustu Kvaler oss sekum Synda-Þrælum til Sꜳluhiꜳlpar og Myskunar. Æ! Hvernig mꜳtti þitt Myskunar Hiarta taka sꜳrara til vor Synda-Þrælaña, eñ so, ad þu lietst þad bitra Sverd þiñar Reidi gꜳnga yfir þiñ eingietna Hiartans Son, i hverium þu hefur alla þijna Velþocknan, so þu mætter breida þiñ miwkañ Myskunar Fadm ꜳ mooti oss, sem af Nꜳtturuñi erum og vorum Oviner þijner? Þu lietst hañ borga þad sem hañ ecki rænte, so þu giæfer oss kvitta þꜳ Obærilegu Synda-Sekt, sem vier ꜳttum ad lwka; Þu lietst hañ saklausañ lijda þꜳ hryggilegustu Hegning, so vier seker mættum hiꜳ þier fꜳ gledilega Nꜳd og Fyrergiefning; Þu lietst hañ lijda

Kvaler

Kvaler og Krossins Dauda, so vier skylldum ecke fortapast, helldur hafa þad eilijfa Lijfed! O Herra Gud! hvad var Maduren þess, ad þu mintest hans, og Mansins Barn, ad þu vitiader þess? Lof i þig þar fyrer Anden vor, þu eilijfe Lyknar Brunnur, og allt hvad med oss er, þad Lof-synge þijnu Naadar-Nafne nu og ad eilijfu.

Æ Hiarta-goode Gud og Fader, þu sem giorder so miked Myskunnar Verk a oss, þegar vier vorum þijner Ovinir; Vier grætbænum þig fyrer þijns Sonar saaru Kvaler, aptursoka alldrei fyrer oss þijnu Elsku Hiarta; Lat þijna fodurlegh Millde og Myskun, Naad og Farsælld vara og vidhalldast yfer oss, sem erum fyrer þijns Sonar Dauda forlijkader vid þig. Lat þijna heitu Fodurs Elsku hræra þitt Hiarta til ad vægia oss og myskunna; Lat hana hræra vor Hiortu til ad Ottast þig og elska af Hiarta, til ad þioona þier og þocknast af ollum Kroftum alla vora Æfidaga, so eingin Hlutur sæe oss fra þinne Elsku skiled.

O vor hæblessade Brooder og hiartkiære Brudgume HErra JEsu Christe, þu sem oss ert nu i þijnu H. Orde fyrer Augum afmaaladur alblodugur og alsærdur a Krossenum hangande, so sem ein Foorn og Forlijkun fyrer vorar og allrar Veralldarennar Synder, med audmiwku Avarpe hiartanlegrar Elsku og Lofgiordar, Bænar og Andvarpinar krinnpum vier i Dag ad þijnum Krosse:

þu

þu krossfeste og blessade Dijrdarennar Kunungur! Oss brestur Ordfære og Twngutak til ad vegsama þañ breñande Kiærleika, sem þu hefur audsijnt oss til ad vijdfrægia þa Naad og Saaluhiaalp, sm þu hefur afrekad oss, til ad wtmaala þær bitru Kvaler og Kvellingar, sem þu hefur lided vor vegna. Vier siaaum ad sönu, med Taarum og Trega, hverso þijn blessudu Saar hafa vorra Synda vegna vered boolgeñ og svijdande af Kvoleñe, eñ vier vitum og trwum þo, Drotteñ miñ, ad þitt blessada Broodurs og Brwdguma Hiarta hefur under eins heitt bruñed og naakvæmlega sundurbrosted af Elsku og Myskun yfir oss, af Lyst og Laungun til vorrar eilijfrar Saaluhiaalpar. O JEsu! vier beigium oss med Blygdan fyrer þijnum Krosse, vier horfum med sundurknosudu Hiarta aa moote þijnum Blood-Fadme, vier leggium vorar Trwar og Bænar Hendur inn i þijn H. Saar og Beniar. O HErra, laat þaa saaru Hrygd og Hormung, sem þu polder, vera vora æskelegustu Huggun og Harma Boot bæde i Lijfi og Dauda: Laat þær svijdande Under, sem þu barst, vera vort oruggt Naadar Athvarf og mwka Hvijldar Sæng i allre vorre Mædu og Eymdanna Erfide; Laat þa fössande Blood-Dropa, sem þu wthelltir, hrijna a vorum Saalum og Samvitskum til Synda Hreinsunar og Svölunar, til Rettlætis, Helgunar og eilijfrar Endurlausnar. O vor krossfeste og blessade Jesu! vier grååtbænum þig; Gief oss

frwsañ og falslausann Vilia: Auk oss gudlega og lifande Krapta, so vier kæatum ævarande Miñing þiña Dumrædelegu Krossens Kvala, krossfesta, deyda og dempa illar og ostijrelaatar Gyrnder, þörs-spillta Holldos og Bloods, so vier alldrei med Vantrw edur Ydrunarleyse botum þig, sem oss hefur so hiartanlega elskad, og briootum af oss þa Naad og Saaluhiaalp, sem oss er med so dijru Verde afrekud.

O þu heilage og hæblessade Drottens Ande! gief oss ollum ad geyma og vardveita þau Lijfsins Ord, sem vier nu i Dag af Lausnarans Krosse heyrt hofum, i goodum og sidsomum Hiortum, og fæera þar af Avoxt i Polennmæde. Laat þess krossfesta Jesu Miñing, fyrer þiñ Guddoomlegann Myskunar Krapt, innskrifast og þryckiast i allra vor Brioost og Hiortu, þijnu hæleita Nafne til Lofs og Dijrdar, eñ oss til Saaluhiaalplegrar Trwarstyrkingar, til Gudrækelegrar Lifnadarens Leidrietttingar, til tijmanlegrar og eilijfrar Blessunar. Bænheyr oss, þu blessade Gud, eiñ i Þreñingu, og þreñur i Einingu, hærst lofadur og hiartanlegast vegsamadur nu og ad eilijfu, A M E N.

## Fiogur Psalm-Vers.

Kveden af

### Sr. Magnuse Einarssyne a Tiorn.

Ton, Nu bid eg Gud þu naader mig, etc.

O! Minn JEsu i Undum þijn, ell er Saalu-hiaalp foelgenn mijn; Hiartans þa Angist hrelleer mig, Hugguneñ er ad veit eg þig, hafenn a Kroßens harda Trie, hier fyrer þa eg ydrande, fadma i Trwñe Frelsarann, fordæma engenn Synd mig kann.

O! minn JEsu þitt Edla Blood, er mijn Hreinsunar Laugeñ good, saurugu Hiarta Syndum af, sock eg nidur i þetta Haf, falleñ grateande fram fyrer þig, fra þier muntu ei hrekia mig; Þijnu fyrst Bloode þvegeñ er, þad hroopar Myskun yfer mier.

J JEsu Dauda eg vijst sie, þa Ondenn mijn stynur sorgande, stillt er Guds Reide straung og hord; enn stiftud blessud Sættargiord, fullkomeñ Visa um Vægd og Naad, veitest þier Saala mijn fyrer aad, þvi i hanns Dauda er innsiglud, eilijf Forlijkun þijn vid Gud.

J JEsu Grof er oll mijn Synd, (O þa Huggunar sæta Lynd), O sem i grunnlaust Siaafar Haf, sockenn nidur; Eñ hañ mier gaf, eilijft Rietlæte og sialfann sig, sijna Brwdur þvi nefner mig, lofadur sierttu goode Gud, giorvoll er Skulldenn betolud, Amen.

✿✿✿✿✿✿✿✿✿✿✿✿✿✿✿✿✿✿✿✿✿✿✿✿✿

## Prin Psalm-Vers.

Ordt af Sal. Sr. Halldore Hallssyne.

Toñ, Heyr mig JEsu Lækning Lijda, etc.

 Kysse

KYsse eg JEsu Kvala Under, klockum Trwar Munne þo, Angist hanns og Synndar-Stunder, eilijfann mier Fognud bioo, bætte hann fyrer Misgiord mijna, mig kann Diöfull ecke ad pijna, Fiandans Hlecker fiellu af mier; fyrer þad JEsu þacka eg þier.

Eg vil bijda, eg vil þreya, Unda Flood þitt huggar mig, eg vil lijda, eg vil deya, O JEsu so kysse eg þig, eg vil þier til Foota falla, flatur um̃ mijna Daga alla, læta Hiarta og Huga minn, heidra þig fyrer Kraptenn þinn.

Daude þin̄ mier dæmer Lijfed, Daudans Neyd er horfenn öll, þegar eg dey, mun Þrauta Kijfed, þverra, Neyd og Synnd giörvöll. O! þu Daudans Daude fyrste, sem doost og lifer,
JEsu Christe, lææt mig deya meiga mier;
minn JEsu, so life eg þier.



